gat ekki átt að missa hann svona. Helmingi verra að missa hann svona, en ef hann hefði dáið og farið til guðs. Og við því hafði guð hlíft henni, af því að Egill var augasteinninn hennar, og guð leggur ekki þyngri byrði á nokkurn mann, en hann getur borið.

Nú gat ekki annað verið, en að guð hlífði henni við því að missa Egil til Vesturheims, versta staðarins í allri tilverunni — næst aðsetursstað útskúfaðra manna — þar sem alt var krökt af stórþjófum og ræningjum og manndrápurum.

„Hlífðu mér, guð minn góður! Vægðu mér, drottinn! Taktu ekki frá mér það eina, sem eg á, eins og ríki maðurinn í dæmisögunni, sem tók eina lambið frá fátæka manninum! Enginn getur verið fátækari en eg. Og enginn er eins auðugur eins og þú“.

Og skininn og visinn líkaminn gekk upp og niður af ekka undir ábreiðunni.

Hún hafði aldrei grátið út af syni sínum jafnbeisklega.

Ekki það skifti, sem það tók hana sárast, að hún var að missa af móður-tökunum á honum. Hún var þá nýlega búin að missa manninn, var viðkvæm fyrir öllu og baslaðist við fátækt í tvíbýli. Egill var þá eitthvað 10 ára og var öllum

stundum, sem hann gat, með dreng á hinu búinu, sem þótti lakari en aðrir drengir í sveitinni.

„Þykir þér svo mikið gaman að vera með honum Óla?" hafði hún sagt við hann, þegar þeir voru nýbúnir að sýna af sér einn strákskapinn.

Egill sat á rúminu, þverúðarfullur, lamdi hælunum í rúmstokkinn og svaraði engu.

„Eg vildi, að guð gæfi, að þér þætti meira gaman að vera hjá mér".

„Hjá þér?"

Hann sagði þetta í þeim róm, að hún fann, að í hans augum var það veraldarinnar mesta fjarstæða, að honum gæti þótt gaman að vera hjá h e n n i.

Og aftur sagði hann:

„Hjá þér?"

Og þá lék röddin svo kuldalega fyrirlitlega á síðara orðinu, að Signýju fanst hún sjá inn í tilfinninga-myrkur og ræktarleysis-auðn inst inn í sál þess sonarins, sem hún elskaði.

Þá grét hún beisklega. En hún fór að biðja fyrir honum. Og þá vissi hún, að guð mundi bænheyra sig.

Og guð hafði bænheyrt hana — svo rækilega, að henni fanst það synd af sér að láta sér koma

þessa ávirðing hans til hugar. Egill hafði orðið góður drengur og góður maður.

Hún fór að hugsa um, hve ljúfur hann hafði verið henni, hvað hann hefði verið þægur og lipur að snúast kringum hana, sækja fyrir hana vatn og berá út ösku, hvað hann hefði kyst ástúðlega á höndina á henni, þegar hún strauk henni um andlitið á honum, og hvað hann hefði oft lagt upp að henni ljósgulan kollinn með bjartleytu andliti og stórum, bláum sakleysis-augum.

Hann hafði alt af verið eins og engill. En fegurstur engill hafði hann verið, þegar hann lá fyrir dauðanum, og hún sá það á öllu fólkinu, að það taldi víst, að hann mundi deyja. Hvað hann hafði litið á hana átakanlega þolinmóðlega og þakklátlega, þegar hún var að hagræða honum. Og hvað hún hafði verið þreytt af að vera yfir honum næstum því í sífellu dag og nótt. En hún vissi, að þreyttari var hann. Og hún hafði enga eirð í sér annarstaðar en hjá honum, nema þær fáu stundirnar, sem svefn sigraði hana. Aldrei hafði hún meiri fagnaðar-stundir lifað, en þegar honum fór að batna, og hún sá hann í fyrsta sinni staulast undurhægt innan um baðstofuna.

— — — Og nú átti hún að missa hann? Himneski faðir — það gat ekki verið satt!

Jú, auðvitað var það satt. Hvað gat Nonna

gengið til þess að fara að skrökva þessu? Og þegar hún hugsaði sig um, mundi hún, að þögn hafði slegið á alt fólkið í baðstofunni við fregnina. Enginn hafði neitt mælt á móti Nonna, nema hún. Það var svo sem auðséð eftir á, að allir trúðu þessu, nema hún. Allir vissu, að það var satt, nema hún. Af því að öllum stóð á sama um það, nema henni.

Og tárin runnu ofan eftir skorpnum gamalmenniskinnunum og nudduðust út um alt andlitið, eins og á börnum; og rekkjuvoðirnar urðu blautar; og grátt hárstrýið flæktist framan í andlitinu og varð rennandi.

Nú varð guð að liðsinna henni. Hann varð að afstýra þessu. Hún var aumingi, og það var sannarlega ekki gustuk að leggja þetta á hana. Annaðhvort afstýra þessu, eða lofa henni að deyja áður. Það gat vel verið, að hún gæti einhvernveginn vakað yfir honum í öðru lífi, þó að hann væri í Ameríku. Hún gat þá talað við guð um hann, þegar hún var komin til himnaríkis. En hvað átti hún að geta gert hér, nema saknað og verið síhrædd?

Hún ætlaði að tala vandlega við Egil, þegar hann kæmi næst. Og alt af þangað til ætlaði hún að biðja guð um að gefa orðum sínum kraft. Þetta hlaut að lagast.

Og samt vafðist efaþokan utan um trúna eins og dalalæða. Vissuna um bænheyrslu vantaði. Og þegar hún gat loksins sofnað, vissi hún stöðugt af einhverju sorgar-fargi á huga sínum.

Egill kom næsta sunnudag.

Jafnskjótt og Signý leit framan í son sinn, vissi hún, að það var satt. Hún vissi ekki, af hverju hún vissi það. Hún vissi það eitt, að nú var ekki um að villast.

Hún lét hann setjast hjá sér á rúmið sitt. Fólkið flutti sig frá þeim, svo þau skyldu geta talað saman í einrúmi.

,,Er það satt?" sagði hún.

,,Eg þykist vita, við hvað þú átt. — Já, það er alveg satt".

Þó að hún væri ekki í nokkurum vafa einu augnabliki áður, fanst henni einhver ókendur þungi koma yfir sig.

,,Ætlarðu ekki að gera það fyrir mig að hætta við þetta?" sagði Signý gamla klökk.

,,Nei, það get eg ekki — ekki með nokkuru móti".

Og hann gerði henni grein fyrir ástæðum sínum, sýndi henni fram á, hve efnahagur sinn væri bágborinn, skýrði henni frá hrellingunni í sér út af tilhugsuninni til þess að fara á sveitina.

,,Eg viltist einu sinni í náttmyrkri, dimmviðri

og frosti", mælti hann. „Eg ráfaði og ráfaði, gerði mér á endanum enga von um, að eg mundi ná bæjum, og hélt eg mundi krókna. Þá sá eg alt í einu ljós í glugga. Ameríka er orðin mér að ljósinu í glugganum. Þegar eg er búin að koma auga á ljósið, get eg ekki lagst fyrir úti á hjarninu".

Hún gat ekki svarað þessum ástæðum neinu. Egill var svo miklu kunnugri málinu, og hafði líka margfalt meiri talanda. Hún gat ekkert annað sagt, en að hún væri svo hrædd um hann; í öðrum löndum væri svo mikið af vondum mönnum; og mest væri af þeim í Ameríku.

En þá kom hún ekki að tómum kofanum. Egill gekk að því vísu, að guð gæti alveg eins verndað sig í Vesturheimi eins og á Íslandi. Og hann hafði upp fyrir henni ritningargreinina um vængi morgunroðans og hið yzta haf og föðurhöndina, sem héldi mönnum föstum, hvert sem þeir færu um veröldina. Hún hafði sjálf kent honum þessa grein utanbókar, áður en hann lærði að lesa.

Þessu varð ekki með nokkuru móti svarað. Henni lá við að sannfærast.

En þá kom andvarp inst innan úr djúpi sálar hennar. Allar aðrar hugrenningar hennar höfðu ekki verið annað en umbúðir utan um það eitt:

„Eg sakna þín svo mikið!“

Og hún grét beisklega.

Þessu gat hann ekki svarað. Honum fanst ólán sitt meira en annarra manna. Hann horfði í gaupnir sér og þagði.

— — — Þegar Egill var farinn, lagðist Signý gamla upp í rúmið sitt. Hún gat við engan talað. Hún vissi, að dóttir hennar gat ekki tekið verulegan þátt í þessu. Signý gamla vissi það af langri reynslu, að dóttur hennar þótti það kynlegt og ekki sem sanngjarnast, að Egill skyldi vera augasteinninn hennar — ekki meira en hann hafði fyrir hana gert í ellinni. Og hún vissi það líka, að dóttir hennar fann vel til þess, að hún lét móður sína lifa í allsnægtum, og að henni þótti ekki mikil ástæða til þess að ganga af göflunum, þó að bróðir hennar leitaði sér atvinnu annarstaðar, þegar hann gat ekki bjargast í nágrenninu. Dóttir hennar hafði aldrei sagt það. En Signý gamla fann eiminn af hugsunum hennar.

Hún hafði ekki við aðra að tala en sjálfa sig.

Guð hafði þá ekki bænheyrt hana. Hann hafði ekki gefið orðum hennar nokkurn mátt. Hún hafði ekki einu sinni getað neitt sagt. En Egil hafði guð eflt gegn henni. Og Egil átti hún að missa. Ekkert undanfæri!

Fyrir hvað var guð að hegna henni? Var

það fyrir það, að hún hafði elskað Egil meira en hin börnin? Meira en alt annað á jörðunni? Eða hafði hún ekki elskað hann nógu heitt?

„Ó, drottinn minn góður! Þú veizt, að eg vildi alt gera fyrir hann. Að eg vildi vaka yfir honum dag eftir dag og nótt eftir nótt. Að eg hefði viljað svelta fyrir hann og þjást fyrir hann Að eg hefði viljað láta svívirða mig og fótum troða mig til þess að bera af honum minsta blak. Að eg hefði viljað leggja lífið í sölurnar fyrir hann, ef þess hefði þurft".

En hún vildi ekki sætta sig við að sjá af honum. Sjá alveg af honum. Fá aldrei að sjá hann. Fá ekkert að vita um hann.

Var þetta of mikil sjálfselska? Mátti hún ekki elska hann svona? Átti hún að elska hann einhvern veginn öðru vísi? Var guð að hegna henni fyrir þetta?

„Ó, drottinn, heimtaðu ekki of mikið af mér. Og kendu mér að skilja að þú sért góður!"

Og það var eins og efasemdirnar hryndu ofan á veika og vanmáttuga sálina og lömuðu hana. Og það var eins og sorgin breiddi yfir hana snjóblæju. Hún grét ekki. Og hún hugsaði. Að eins titringur við og við í hrörlegum líkamanum. Annars alt kyrt. Þangað til svefninn kom.





# VITLAUSA GUNNA.

—



ITLAUSA GUNNA var dáin.

Þegar fregnin um andlát hennar barst að Prentsmiðjupóstinum, var þar mannsöfnuður af vatnsberum, körlum og konum, ungum og gömlum. Og háreysti var þar mikil. Kerlingarnar voru óþolinmóðar, af því að þær komust ekki að brunninum, og létu það uppi með óþvegnum orðum. Karlarnir stöppuðu hælunum niður í klakann, hengdu föturnar í olnbogabæturnar, tóku af sér vetlingana á víxl, blésu á krepta fingurna og bölvuðu kuldanum. Strákarnir voru farnir að stríða hver öðrum á því meinlegasta, sem þeim kom til hugar, einkum því, er eitthvað kom við foreldrum eða vandamönnum, og voru þess albúnir að gefa hver öðrum á hann.

Og stúlkubörnin stóðu í hnapp sér, með höfuðin vafin í sjölum, svo ekki sást nema í augun, og störðu hálfhrædd á þessa smámynd af lífinu. En samt þótti þeim hálfgaman að henni.

Og kliðurinn barst um alt Aðalstræti, suður að Hjálpræðiskastala og út að Bryggjuhúsi, í syngjandi frostinu.

Þá bættist maður í hópinn, og sagði andlát Gunnu.

Alt varð hljótt.

Sumar kerlingarnar tárfeldu. Ekki af því, að þeim hefði þótt minstu vitund vænt um Gunnu, eða að þær söknuðu hennar neitt. Þær gerðu það af gömlum vana. Þær höfðu mist svo marga, sem þeim hafði þótt vænt um, að þeim vöknaði um augu hvert sinn, sem þær heyrðu mannslát.

En vinsæl hafði Gunna ekki verið, — nema með börnum. Fálát við aðra og þegjandaleg, oft uppstökk og hranaleg. Aldrei í kunningsskap við nokkurn mann, nema Sigurlaugu gömlu, sem hafðist við með henni í steinkotinu uppi í Skuggahverfi. Þegar verst lá á henni, hafði hún haft það til, að stjaka kerlingunum frá brunninum, og grýta fötunum þeirra, eitthvað út í loftið. Og svo vel hafði hún verið að manni, að kerlingarnar vissu það vel, sð þær áttu ekkert erindi í hendurnar á henni, og urðu að hafa þetta eins og

hvert annað hundsbit. Þær létu sér þá nægja að senda henni tóninn álengdar.

„Ljóti bölvaður vargurinn", sögðu þær hver við aðra, þegar þær mintust á hana.

En við öll börn var hún góð. Þeim stjakaði hún aldrei frá sér. Hún hafði það til að ná vatni upp í föturnar þeirra, þegar lítið var orðið í brunnunum. Hún kastaði oft á þau kveðju og þá æfinlega hlýlega — aldrei á nokkurn annan. Og fyrir kom það, að hún fór með þau fátækustu inn í búðir og keypti þeim einhvern glaðning.

Eitthvað var hún norðan úr landi. Fæstir vissu hvaðan. Og til Reykjavíkur hafði hún komið fyrir mörgum árum. Hún hafði gengið að hvers konar stritvinnu, saltfisksþvotti, kolaburði, og vatnsburði, þegar ekki var annað fyrir hendi. Hún þrammaði að öllu, þunglamaleg og fasmikil, með sömu dygð og trúmensku. Aldrei hafði hún verið upp á nokkurn mann komin og aldrei leitað vináttu nokkurs manns — nema Sigurlaugar.

Enga brjálsemi höfðu menn orðið varir við á henni, síðan er hún kom til Reykjavíkur. En orð lék á því, að hún hefði orðið eitthvað geggjuð fyrir norðan. Enginn vissi, hvernig hann vissi það. Enginn vissi neinar sönnur á því. En allir vissu það — einhvern veginn — þeir, er nokkuð vissu um Gunnu.

Og af því að menn vissu þetta, og af því að hún var ekki við alþýðu skap, var hún kölluð Vitlausa Gunna — þó að hún væri ekkert vitlaus.

Nú var hún dáin.

Hópurinn smátíndist frá brunninum hljóðlega. Í raun og veru létti kerlingunum fyrir brjósti. Nú þurftu þær aldrei að vera hræddar við Gunnu framar. En eitthvað var það óviðkunnanlegt að hugsa til þess að hafa verið með henni ár eftir ár og dag eftir dag, og að nú væri hún alveg horfin burt af heiminum. — — — Og svona áttu þær sjálfar að hverfa, hver veit hvað bráðlega — — — Og karlarnir fóru að hugsa um brjóstveikina í sér — hún yrði nú líklegast ekki lengi að fara með þá úr þessu baslinu. Og börnin voru full af ótta. En vissu samt ekki, við hvað þau voru hrædd — hvort það var við dauðann eða guð eða Gunnu.

Alt þrammaði fólkið með sínar fötur og sínar hugsanir.

Og frostið laumaðist inn um vetlingana og skreið innan undir skyrtunum upp undir olnboga. Það tók utan um höldurnar,, en létti samt ekkert undir með höndunum — gerði þær bara dofnar. Og þegar upp úr hvosinni kom, var næðingur og mjöllina skóf.

Þá gleymdu allir Gunnu. Menn mundu ekki eftir öðru en kuldanum.

Gunna átti fyrir útför sinni og langt fram yfir það. Sigurlaug gamla lagði kapp á, að útförin yrði sem virðulegust. Hún fekk prest til þess að halda bæði húskveðju og líkræðu. Og fátæklingarnir, sem fylgdu henni til grafar, voru ekki mjög fáir. Á kistunni voru jafnvel tveir kranzar. Annar var borgaður af dánarbúi Gunnu. Hinn gaf Sigurlaug gamla.

Hún saknaði Gunnu svo mikið, að lengi gat hún ekki ógrátandi á hana minst. Heldur var henni huggun að því en ami, hvað presturinn gat lítið sagt um hana í þessum tveim ræðum. Hann vissi ekki öllu meira en það, að hún hefði verið einstæðingur og líklegast um fertugt, þegar hún lézt. Á manntalsskýrslunum hafði aldrei staðið á steini um aldur hennar. Gunnu hafði ekki fundist, hann koma neinum við, og sagði það, sem henni sýndist í hvert skiftið. Annars voru ræðurnar um alt annað en Gunnu. Og Sigurlaug gamla kunni vel við það.

Ekki fyrir það, að neitt væri misjafnt af Guðrúnu sálugu að segja. Hún hafði verið vönduð manneskja til orða og verka. En af því að presturinn vissi auðheyrt ekkert, fanst Sigurlaugu gömlu enn meira um það, hvað sér hefði verið trúað fyrir miklu

Henni fanst það mikið, fáráðlingnum, sem

hafði hýrst barna í kotinu árum saman hjá Vitlausu Gunnu og sjaldan við aðra talað — meira en alt annað, sem fyrir gæti komið, að hún skyldi hafa verið höfð að trúnaðarmanni um annað eins. Öðrum, sem hafa hugann fullan af stórviðburðum veraldarinnar og mikilfenglegum og háleitum hugsunum, finst það hlægilega lítilfjörlegt. Og engum, sem þekkir lífið, finst það annað en ein af þessum sögum, sem gerast á hverjum degi.

Alt um það ætla eg að segja hana. Sigurlaug gamla sagði mér hana einu sinni í mesta trúnaði. Nú er hún farin á eftir Gunnu, vinkonu sinni, hvar sem þær eru nú niður komnar. Annars þyrði eg ekki með nokkuru móti að hafa þetta í hámælum. Sigurlaugu mundi finnast eg vera lítið betri en griðníðingur.

,,Eg vil ekki láta hafa neinn þvætting eftir mér", sagði hún.

En nú er hún væntanlega búin að átta sig á því, að meinlaust sé að segja söguna. Enda hefi eg heyrt þetta sama úr fleiri áttum, svo að hún á ekki ein sök á því, að sagan er sögð.

---

Gunna var væn kona yfirlitum á ungum aldri. Hávaxin var hún og þrekleg um herðar, enda talin karlmannsígildi að burðum. Hárið var mikið og jarpt, og sló á það mislitri slikju. Augabrúnir

miklar og nefið stórt og íbogið. Augun gráleit og snarleg. Svipurinn allur snarplegur, einbeittlegur og fálætislegur. Samt urðu margir þess varir, þeir er veittu henni nákvæma athygli, að oft brá fyrir furðu þýðum glampa í augunum, einkum þegar hún var hugsi. Þegar á hana var yrt, varð andlitið kuldalegra.

Og karlmenn veittu henni nákvæma athygli.

Skaphörð þótti hún nokkuð, vanstilt og langrækin. Leitaði aldrei á neinn að fyrra bragði, en kunni illa áreitni. Meinleg var hún í orðum, þegar því var að skifta, en fáorð, sem endranær, þegar hún skifti skapi.

Einu sinni varð henni sundurorða við Guddu, eina stúlkuna, úti á túni við heyvinnu. Gudda lét þess þá getið, heldur óþyrmilega, að Gunna væri lausaleiksbarn. Þá varð Gunnu orðfall, sem henni var ekki títt. En hún rétti úr sér, tók svo fast um hrífuskaftið, að hnúarnir hvítnuðu og hvesti augun á Guddu. Einn piltanna, sem á þetta horfðu, hafði orð á því, að Gunna væri eins og valur. Um hríð var hún þá nefnd Valurinn. Því nafni var síðar breytt, og varð að Valkyrju. Það nafn átti ekkert skylt við þær kvenverur, er kjósa feigð á menn í orustum — átti ekki að merkja annað en kvenfuglinn. Stúlkurnar breyttu nafninu enn og kölluðu hana Gamminn.

Húsbændur Gunnu á Hóli hétu Þórður og Sigþrúður. Húsfreyja þótti fyrir bónda sínum, og var hann samt talinn sæmdarmaður í hvívetna. Hún var þrekkona og skörungur. Alt sótti hún af kappi, sem henni lék hugur á. En var samt jafnan vel stilt. Hún lét sér annara um hjú sín en alment gerðist. Og við brugðið var því, hve mikill drengur hún reyndist þeim, ef í nokkurar nauðir rak.

Þorvaldur hét maður. Hann var húskarl á Hóli, samtíða Gunnu þar. Hann var fríður sýnum, íturvaxinn og snyrtimenni. Glaðlyndur var hann og alúðlegur með afburðum. Hálfþrítugur hafði hann komið að Hóli um vorið úr öðrum landsfjórðungi. Orðasveimur lá á því, að hann hefði eitthvað verið meira í kynnum við konur, en vel hefði þótt á fara. Stúlkunum stóð forvitnibeygur af honum. En beygurinn hvarf vonum bráðar.

Gunna var önug við hann í fyrstu, öllu þurlegri við hann en aðra. En hann lét, sem hann yrði þess ekki var. Hann hló, ef hún svaraði honum út af, og braut upp á öðru, svo alúðlega, sem ekkert hefði í skorist. Gunna veitti því nákvæma athygli, hvort hann væri æfinlega jafnþægilegur við Guddu. Stundum fanst henni það. Stundum fanst henni það ekki. En alveg stóð

h e n n i á sama. Hann mátti vera svo gleiðgosalegur við hvern sem var h e n n a r vegna. En hitt sá hún, að Guddu stóð ekki á sama. Alt af var hún hlæjandi út undir eyru, þegar Þorvaldur yrti á hana. En ekki nema fýlan sjálf við aðra. Henni fór nú samt ekkert vel að hlæja — ekki þurfti hún að hugsa það. Hláturinn var stórkarlalegur og tennurnar stórar og gular. En það gat vel verið, að Þorvaldi fyndist nú annað. Sama var henni.

Hún stalst til að horfa á hann, þegar hún þóttist vita, að enginn tæki eftir því.

En þó að hún horfði í alt aðra átt en þangað sem hann var, fann hún svart, silkimjúkt hárið á honum leggjast frá enninu aftur á höfuðið. Hún fann hverja hreyfingu á líkama hans, fann, að þær voru allar mjúkar og þýðar, eins og sunnangolan á sumrin. Og hún fann dökk, góðleg augun fara hlæjandi inn í sál sína.

En alveg stóð henni á sama.

---

Einu sinni var Þorvaldur einn að slætti úti í hálsi. Um hádegi var Gunnu sagt að fara þangað og raka. Gudda horfði óhýrlega á eftir henni.

Loftið var létt. Sólskinið var bjart. Hrískvistirnir ilmandi hér og þar um allan hálsinn. Lóurnar sungu alt í kring um hana. Þetta þótti

þeim skemtilegur dagur — að láta blessaða sólina glampa svona á hvíta bringuna á þeim í logninu. Og spóarnir hefðu ekki getað verið kyrrir, þó að þeim hefði verið gefið stórfé til þess.

Og Gunna var létt á fæti. Hún stökk þúfu af þúfu og hafði hrífuskaftið sitt fyrir göngustaf. Einstöku sinnum laut hún niður, til þess að tína sér bláber, og stakk þeim upp í sig. En ekki tafði hún sig á því til muna. Hún tók skýluna af sér, hélt á henni í annari hendinni, og lét loftið leika um heitt höfuðið á sér. Hún gleymdi því alveg, að nú var hætt við sólbruna.

Og lundin var venju fremur létt. Ekki að hún hlakkaði til þess að koma ein í slægjuna til Þorvalds. Henni var alveg sama um Þorvald. En — Gudda var svo leiðinleg.

Þorvaldur kastaði á hana kveðju, einstaklega alúðlega, eins og hann var vanur.

„Sæll", sagði Gunna, batt á sig skýluna og fór að raka.

Hún fann, að hann horfði á hana hvert skifti, meðan hann var að brýna. En hún leit ekki upp.

Nokkuru síðar kom drengur með miðdegisverð til þeirra. Hann reið tafarlaust af stað aftur. Gunna vissi ekki, hvort hún átti að fá af sér að fara að setjast þarna með Þorvaldi einum að

mat. Það hafði aldrei komið fyrir áður. En hann kallaði á hana. Og þá kom hún.

Þau settust utan í grasbrekku. Hún sat flötum beinum og fæturnir stóðu nokkuð út undan pilsunum. Skórnir voru nýir, með hvítum eltiskinns-bryddingum. Hún hafði vandað sig á þeim, og ætlað að hafa þá að spariskóm. En um morguninn hafði hún gripið til þeirra í góðviðrinu. Fæturnir voru nokkuð stórir, en fyrirtaks vel lagaðir.

Hún fann, að Þorvaldur horfði á fæturna á henni. Og hún kipti þeim inn undir pilsin.

,,Hefirðu tekið eftir því", sagði Þorvaldur, ,,hvað hún Guðríður hefir ljótar fætur?"

,,Ónei; mér koma nú ekki mikið við fæturnir á henni Guðríði", sagði Gunna.

En í huganum hló hún. Og hún hafði tekið eftir því.

,,En hvað veðrið er alt af gott hér á Norðurlandi!" sagði hann þá. ,,Hér er alt af sólskin og alt af logn".

,,Þú hefir nú ekki verið hér mörg árin".

,,Nei. En eg get ekki hugsað mér það öðruvísi en gott. Hér hefir mér þótt bezt að vera".

,,Hvers vegna þykir þér betra að vera hér en annarstaðar?"

,,Eg veit ekki. Og eg veit það þó. Mér

þykir betra að vera hér í brekkunni en á nokkurum öðrum stað, sem eg hefi komið á".

Hún kiptist við og leit á hann. Hann horfði beint fram undan sér; ekki á hana. Henni fanst hann eitthvað svo raunalegur, en jafnframt svo óumræðilega ástúðlegur á svipinn. Og hún leit þegar undan og horfði í gaupnir sér. Hún fann óstyrk fyrir hjartanu.

Þau þögðu bæði örstutta stund.

„Þú hefir víst víða farið?" sagði hún þá.

„Já, eg hefi farið um alt land. Eg hefi orðið að sjá um mig sjálfur, síðan eg var 14 ára. Eg hefi verið í búð á Vesturlandi, og við sjóróðra á Austfjörðum og á þilskipi í Reykjavík og vinnumaður í Borgarfirði. Og nú er eg hingað kominn. Mér fanst eg ekki mega fara fram hjá Norðurlandi".

„En sá flækingur á þér, maður. Þú hefir aldrei tollað við neitt. Hvernig stendur á þessu eirðarleysi?"

Hún sá á sömu stund eftir því, hvað hún sagði þetta óþýðlega. En hún gat ekki að því gert. Hún hafði ekki vald á sér.

„Langar þig til að vita það? Þér gæti eg sagt það. En engum öðrum".

Hún svaraði engu og leit ekki upp. Henni varð enn órórra.

,,Eg hefi verið svona eirðarlaus, af því að engum hefir þótt vænt um mig. Mér hefir fundist, eg geta ekki án þess verið. Hvaða ánægja er annars að lífinu? Hefir þér fundist nokkur veruleg ánægja að því, Guðrún? Ánægjan er engin önnur til en sú, að öðrum, einhverjum einum að minsta kosti, þyki vænt um mann".

Enn þagði hún og horfði í gaupnir sér. Borðað gat hún ekki framar.

Hann hallaðist á olnboga að henni. Og hann strauk um höndina á henni, eins og óvart.

Hún fann hitatitring fara um sig alla. En hún þagði og leit ekki upp. Hún hefði ekki getað litið á hann, hvað sem í boði hefði verið.

,,Hér þykir mér gott að vera, Guðrún. Hér veit eg, að eg finn það, sem eg hefi verið að leita að. Og eftirleiðis verður enginn flækingur á mér og ekkert eirðarleysi".

Hann tók utan um höndina á henni. Og hún dró hana ekki að sér. Hann ætlaði að taka utan um mittið á henni. En þá hrökk hún við og stökk á fætur.

Honum þótti varlegra að fara ekki lengra það skiftið. En hann vissi, að sigurinn var unninn. Hann stóð líka upp og mælti:

,,Þú manst, hvað eg hefi sagt þér, þín hefi eg verið að leita. Nú er eg búinn að finna þig. Og eg sleppi þér aldrei, alla mína æfi".

Nú leit hún á hann allra-snöggvast. En ekkert sagði hún. Þá lagði hún af stað út í slægjuna. Hann ætlaði að verða henni samferða.

„Farðu að slá, Þorvaldur. Láttu mig vera. Segðu ekkert meira núna“.

Hann heyrði grátstaf í röddinni.

„Alveg eins og þú vilt, góða“, sagði hann.

Hún fór að raka. En sá ekki til í sólskininu. Og eftir skamma stund lagði hún af stað frá hrífunni, þangað er leiti bar á milli þeirra Þorvalds, og settist þar niður.

Þetta var það mesta, sem fyrir hana hafði komið. Henni fanst ekkert annað hafa gerst, síðan hún fæddist. Þorvaldur, sem bar svo langt af öllum öðrum karlmönnum, sem hún hafði séð, hann hafði alt af verið hennar að leita — ekki meiri manneskja en hún var. Við hana, sem langmest hafði heyrt af ónotum um æfina, hafði Þorvaldur sagt alt það, sem hún hafði heyrt áðan. Og hann hafði alt af verið að leita ástar — og fann hana fyrst hjá henni. Hún skildi ekkert í þeim konum, sem hefðu séð hann og ekki unnað honum. Hún botnaði ekkert í neinu þessu. En dásamlegt var það alt saman. Og dásamlegast alls var það, hvað Þorvaldur var yndislegur, og hvað guð var henni góður.

Og hún grét af fögnuði og þakklátsemi.

Síðar um daginn var kallað á Gunnu í hey-þurk annarstaðar. Svo þau Þorvaldur urðu ekki samferða heim.

Slátturinn leið. Þorvaldur færði það ekkert í tal, sem hann hafði minst á úti í hálsinum. En hvert orð hans við Gunnu var eins og hálfkveðin vísa, sem hún ein gat botnað. Á hverju leiti hilti undir vonir. Og dagarnir voru henni yndislegir.

Heimilisfólkið fór að gruna margt. Það þóttist sjá, að Þorvaldur hefði varla augun af Gunnu, þegar þau væru návistum. Það þóttist sjá, að Gunna væri ávalt þýðari við hann en hún hafði nokkuru sinni verið við nokkurn mann. Það þóttist sjá, að þau væru æfinlega saman, þegar þess var nokkur kostur. Það þóttist sjá, að Gunna væri nú orðin svo góðlynd, að tæplega væri unt að reita hana til reiði, og svo glaðlynd, að hún var síhlæjandi.

En Gudda var hvorki góðlynd né glaðlynd um þessar mundir. Hún hafði alt á hornum sér En einkum við Gunnu. Hún átti það til að stinga því að henni, að sumar stúlkur væru flennur. En Gunna reiddist ekki minstu vitund. Hún svaraði brosandi, að því væri nú miður, að ekki gætu allir verið englar, eins og sumir. Og Gudda setti vonzkuhnykk á höfuðið á sér, og varð enn espari.

Húsmóður Gunnu fanst hún þyrfti að vara

hana við Þorvaldi. Gunna hafði verið afbragðs hjú, þó að hún væri stórlynd. Húsfreyju var vel til hennar, og hana tók það sárt, ef Gunna yrði fyrir slysum. Hún hóf máls á því við hana, að þó að hann væri myndarlegur maður, mundi hann ekki vera allur, þar sem hann væri séður. Mjög misjafnar sögur færu af honum, þar sem hann hefði áður verið, og mundi samt fæst af þeim hafa borist svo langa leið. — „Farðu varlega, Gunna mín“, sagði hún. „Óhöppin verða ekki aftur tekin. Og bezt er heilum vagni heim að aka, ekki síður ungum stúlkum en öðrum“.

„Jæja, Gunna mín. Ekki veldur sá er varir“, mælti húsfreyja.

Gunna skildi ekkert í konunni — að vera að leggja trúnað á annan eins þvætting — að halda, að f æ s t hefði borist svo langa leið — eins og það væri ekki sjálfsagt, að slíkt ykist og margfaldaðist eða skapaðist af engu á leiðinni frá einu landshorni til annars. Henni fanst það eitthvað skringilega fráleitt af konunni, sem ekkert þekti Þorvald, að ætla að fara að fræða h a n a um hann — hana, sem ein vissi sannleikann.

---

Um haustið var það á allra vitorði, að þau Þorvaldur og Gunna voru trúlofuð. Þau fóru ekkert dult með það.

Og nýjar lindir komu upp í sál hennar — lindir sem hún hafði ekki áður orðið vör við — lindir ástríkisins og kærleikans.

Það eitt fanst henni vanta á fullsælu, að hún gat ekki verið Þorvaldi nógu góð. Ekki lagt fram nógu mikið af því, sem henni var dýrmætast. Ekki fórnað nógu miklu af sjálfri sér.

Aldrei hafa föt nokkurs manns verið athuguð af meiri nákvæmni og alúð en föt Þorvalds. Eitt af stórmálum sálar hennar varð það, að hvergi væri slysagat, hvergi saumspretta, hvergi vantaði tölu. Þegar hún hafði hann ekki sjálfan, og hún hafði tóm til, gat hún setið yfir fötunum hans og horft á þau og lagt þau undir kinnina á sér og vafið þeim utan um sig með nautn og fögnuði. Spjarirnar urðu henni að helgum dómum, af því að hann hafði í þær farið.

Sjaldan er ástinni fögnuður einn samfara. Og mjög tók hún það nærri sér, þegar hann var að leggja af stað á morgnana upp á hálsinn til beitarhúsanna í frosthörkum og fannkomu. Og þegar háir skaflarnir lögðust upp að bæjarþiljunum, og fenna tók á gluggana, svo að dimt varð í baðstofunni, jafnvel um hádegið, og vindurinn sönglaði án afláts í strompinum og frostið lagði hélugan hramminn á alla hluti frammi í bænum — þá var hugurinn hvergi nema uppi á hálsinum, hvert

verk sem af höndum var að inna. Hún hugsaði þá um snjóhúsin, sem menn legðust fyrir í úti á víðavangi, — viltir og uppgefnir, kalnir og ráðþrota — og sofnuðu. Og fannfergin legðist yfir þá varnarlausa. Hærri og hærri, dýpri og dýpri yrði skaflinn, og svæfði mennina svo fast í heljarfaðmi sínum, að þeir vöknuðu aldrei framar til þessa lífs. Hver vissi, nema svo væri nú ástatt um Þorvald? Og væri nú svo komið, langaði hana ekki til neins annars en þess að vera komin til hans í skaflinn, mega halda í höndina á honum, og leggjast í faðm hans, og leggja höfuðið ofan á kinnina á honum, og hvísla í eyru honum, og láta síðustu orðin, sem hann heyrði í þessum heimi, vera um það, hvað henni þætti vænt um hann, og verða honum samferða þangað, sem enginn veit hvar er.

Hvað hún hlustaði vandlega á slíkum kvöldum eftir því, hvort ekki væri komið við bæjardyrahurðina. Hún fór að hlusta löngu áður en nokkur skynsamleg von var um, að Þorvaldur kæmi heim. Og þegar hann kom, fór hún fram til hans með ljós, ef þess var nokkur kostur. Og hún hjálpaði honum til þess að skafa af sér snjóinn af sömu nákvæmni eins og hann væri lítið barn. Og hún tók báðum höndum utan um höfuð hans og kysti hann um alt andlitið. Og hún tók

kaldar hendurnar á honum og stakk þeim inn á ber brjóstin á sér, til þess að verma þær.

Fögnuðurinn við það að vera með honum einum var meiri, en hún hafði nokkuru sinni gert sér í hugarlund, að fyrir sig gæti komið. Mest gaman þótti henni að tala um ókomna tímann. Hana furðaði á því, hvað Þorvaldur var jafnan fáorður, þegar hún færði framtíðarhorfurnar í tal.

Hvar ætlaði hann nú að reisa bú, þegar til kæmi? Hann vissi það ekki.

Lang helzt hefði hún viljað leggjast út með honum. Fara með honum í einhvern undradalinn, sem þjóðsögurnar sögðu frá, þar sem snjó festi aldrei og sauðfé gekk sjálfala og dalbúar þurftu ekki að vera upp á neinn komnir. En þeir dalir voru víst engir til. Og hún þorði ekki að hafa orð á slíkri vitleysu.

Var ekki til einhverstaðar á landinu, þar sem hann var kunnugur, svo hæg og þægileg jörð, að þau gætu haft þar ofan af fyrir sér tvö ein, og þyrftu engra hjúa?

Hann vissi það ekki. Ætli henni leiddist ekki einyrkjabúskapurinn til lengdar?

Hún skildi ekkert í honum. Leiddist! Leiddist að vera með honum einum! Leiddist að vinna fyrir hann einan! Leiddist að vera laus við áreitni annarra! Leiddist að heyra ástríkisorð hans ein

kveða við í eyrum sér! Leiddist að mega búa til mat handa honum einum! Leiddist að mega sitja hjá honum og setjast í fang hans og vefja sig upp að honum, án þess að nokkur maður gæti séð það og litið á sig illum og öfundsjúkum augum. Leiddist! Var himnaríki þá leiðinlegt?!

Hann hóf aldrei máls á ókomnum tíma að fyrra bragði. Og hann eyddi öllu skrafi um hann með hægð. En hún fann, að hann hafði nautn af hverri líðandi stund, sem hann var með henni. Og eins og það væri ekki nóg! Ekki langaði hana til neins annars en að vera honum til yndis. Og það var hún. Hún vissi, að hann mundi sjá um alt, sem þeim kom við. Hún vissi, hvað hann hafði miklu meira vit á því en hún. Og þau þurftu ekkert að vera að bollaleggja um ókominn tíma. Það var bara svo gaman. En það var alveg óþarft gaman.

Í sál hennar var ekki nokkur slæðingur af efa, aðal-þjáning mannkynsins. Ástríkið og trúnaðartraustið var svo fyrirferðarmikið, að ekkert annað komst fyrir í huganum.

Og hún gekk Þorvaldi á hönd með allri sál sinni og líkama. Í hennar augum var það fjarstæða, að hann girntist nokkuð, sem hún átti vald á og synjaði honum um.

Við aðra var hún orðin stilt og þolinmóð.

Jafnvel við Guddu. Og Gudda reyndi á þolinmæðina. Aldrei gat Gunna setið né staðið svo, að Gudda teldi það ekki sér til meins. Og ekki gekk á öðru en einlægum kærum við húsbændur út af misgjörðum Gunnu. Hún tók því öllu góðlátlega. Hvað gerði það til, fyrst Þorvaldi þótti vænt um hana? Og Guddu var vorkunn, ræflinum, fanst henni. Enginn karlmaður leit við henni, og langsízt Þorvaldur, sem hún hefði auðvitað helzt kosið, enda hafði áreiðanlega verið að draga sig eftir honum.

---

Fleira reyndi á þolinmæðina en Gudda.

Þorvaldur var færri miklu við Gunnu, fanst henni, þegar á veturinn leið. Geðstirður var hann ekki. Það var hann við engan. En hann sótti ekki eftir ástaratlotum hennar. Hann lagði ekki stund á að vera með henni einni. Þegar hún lagði brosandi hendur um háls honum, tók hann utan um hana. En hún ein lagði til kossana. Stundum fanst henni eins og óþolinmæði-svip bregða fyrir á andlitinu á honum, þegar hún vildi vera honum allra-bezt. Hún skildi ekkert í því. Trúnaðartraustið var sama og áður. En þetta olli henni sorgar.

„Hvað er að sjá þig í framan?“ sagði Þorvaldur einu sinni við hana um miðjan veturinn.

6

„Hvernig þá?“ spurði hún.

„Þú ert öll móskellótt í framan“.

„Já, eg veit það“.

„Er nokkuð að þér?“

Hún kvaðst ekki vera vel hress.

Hann spurði, með hverjum hætti sjúkleiki hennar væri.

Hún sagðist einkum vera lasin á morgnana. Hefði þá oftast velgju, og stundum uppsölu.

Þorvaldur fór að blístra.

„Það er þó aldrei — “ Lengra komst hann ekki.

„Er þó aldrei hvað?“

„Það væri rétt eftir annarri bölvaðri slysninni“.

Hún spurði hann, við hvað hann ætti. Hann svaraði engu og fór frá henni nokkuð snúðugt.

Og nú fór að verða mikið um hljóðskraf á Hóli. Fólkið grunaði. Og hver leitaði annars og hver trúði öðrum fyrir grunsemd sinni og leitaði henni staðfestingar. Og þeir, sem ekki hafði grunað neitt, urðu stórglaðir út af því, að til sín hefði verið komið með tíðindin — og höfðu vitað þau fyrir löngu.

Guddu hafði ekkert grunað. Og henni varð svo mikið um tíðindin, að hún rásaði um allan bæinn, lauk upp hverri hurð og út aftur, eins og örskot. Loks hitti hún Gunnu frammi í stofu. Hún var þar að fara ofan í kistu.

,,Þú ert þá ólétt, drósin", sagði Gudda.

Gunna svaraði engu. Hún leit ekki einu sinni upp.

,,Æ, má eg ekki fá að ráða því, hvað gemlingurinn verður látinn heita. Mig langar svo til, að hann verði látinn heita Glámur. Nema ef það verður stúlka. Hún gæti heitið Skotta".

Fyrir nokkurum mánuðum mundi Gunna hafa svarað slíku ávarpi í meira lagi hvatskeytlega. Það gat hún ekki nú. Og hún gat ekki heldur svarað góðlátlega, eins og henni hafði veitt svo létt síðasta tímann.

,,Ekki hefir ófætt barnið gert þér neitt, Guðríður", sagði hún og rann út í fyrir henni.

Gudda fór út með miklu fasi og skelti hurðinni hranalega á eftir sér. Gunna tíndi öll fötin upp úr kistunni, og vissi ekki, í hverju skyni hún var að því, eða hvers hún var að leita. Henni var dimt fyrir augum af gráti.

---

Gunna fekk Þorvald aldrei til þess að ræða neitt um jarðnæði og tilvonandi búskap þeirrra. Hann sagði nægan tíma til þess, þegar þau sæju nokkur ráð til þess að giftast. Og það gæti ekki orðið næstu missiri. Í stað þess vistaði hann sig á Hóli næsta ár. Og jafnframt bað hann þau hjónin að láta ekki Gunnu fara, né

barnið, sem í vændum var. Og það varð að samningum.

Verst þótti Gunnu, að Gudda vistaðist þar líka. Gudda varð henni örðugri með hverjum deginum, fanst henni. Og Þorvaldur æ fátalaðri.

Skammdegið hafði liðið skjótt. En langdegið varð henni langt.

---

Fólkið á Hóli var að búa sig í kaupstaðinn um vorið, og alt var á tjá og tundri. Ekki nema vinnufólkið samt. Bóndinn komst ekki það skiftið vegna fundar, sem halda átti í sveitinni, ætlaði að fara síðar, og húsfreyja vildi bíða eftir honum. Þau hefðu helzt kosið, að ekki hefði verið farið með ullina, fyr en þau gætu orðið samferða. En fólkið vildi ekki með nokkuru móti fresta ferðinni. Útflutningaskip, mikið og veglegt, var væntanlegt. Það skip vildi fólkið fyrir hvern mun sjá. Og það vildi hitta að máli útflytjendur, sem kynnu að koma með því af öðrum höfnum. Og þá ekki síður kveðja þá sveitunga sína, er þar stigu á skipsfjöl. Einkum sótti Þorvaldur þessa för fast. Og hann réð miklu með húsbónda.

Hestar stóðu söðlaðir í réttinni sunnan við bæinn og aðrir með reiðingum. Gulltoppur bar af öllum, rauður, glófextur gæðingur, sem húsfreyja átti, og lánaði nú Guddu, ásamt reiðtýgjum sín-

um, í einu ferðina, sem hún fór á árinu. Ullarpokarnir lágu í stórum hóp á hlaðinu, bundnir, með skorpnum sauðarbjórum til hlífðar þeim megin, sem að reiðingnum vissi. Piltarnir skoðuðu undir alla hestana, hvort hvergi vantaði skeifu.

Þorvaldur var óvenjulega stirður og þungur á sér, og lét hina piltana fást sem mest við hestana, stóð upp við réttarvegginn, horfði um dalinn og mælti ekki orð frá munni. Gunna hafði ekkert í því skilið, hvað hann klæddi sig mikið í sólskinsblíðunni. Í tvenn nærföt hafði hann farið og sparifötin og hversdagsföt þar utan yfir. Og hann hafði ekki einu sinni beðið hana að sækja fötin, heldur náð þeim sjálfur. Og hún hafði ekki séð þetta nema af tilviljun. Gunna hafði haft orð á því við hann, hvort ekki væri óþarfi að dúða sig svona. Henni fanst honum verða ógreitt um svör. Samt fekk hann látið þess getið, að hann væri vanur ferðalögum, og ekki væri lengi að breytast veður í lofti, og oft hefði hann kvefast af of litlum búnaði. Hún hugsaði þá ekki meira um það, enda var í mörgu að snúast.

Stúlkurnar voru að klæða sig, og voru lengi að því. Enda átti til míkils að vanda. Þær klæddu sig úr hverri spjör, og fóru í alt hreint og strokið. Og þær hlökkuðu svo mikið til og flýttu sér svo mikið, að þær fóru í spjarirnar ranghverfar

eða öfugar, og mistu þær á gólfið og þurftu þá að strjúka af þeim aftur. En þá vantaði burstann. Og alt af vantaði þær eitthvað, sem þær þurftu á að halda. Og þær rifu upp úr hirzlunum til hálfs fleygðu dótinu út um alt, leituðu í öðrum hirzlum, fundu ekkert, þangað til eitthvert barnið gat sagt þeim, að þetta, sem þær væru að leita að, lægi á gólfinu, eða þær hefðu látið það upp undir sperru.

En út komu þær að lokum, prúðbúnar, með svipur í höndum, í reiðsokkum, og reiðpilsum, og reiðtreyjum, með hatta á höfði og ljósleit sjöl vandlega vafin og vandlega hnýtt utan um hatt og höfuð. Og engin merki sáust áhyggjunnar, sem hafði verið því samfara að afla alls þessa skrauts, né heldur örðugleikanna við að komast í það.

Gunna ætlaði að verða heima, ein stúlknanna. Heilsu hennar var ekki svo farið, að hún gæti ferðast. Hún stóð úti á hlaði, berhöfðuð, ógreidd, lauslega klædd og vesaldarleg, þegar fólkið var að stíga á bak. Gudda leit á hana háðslega, fyrst framan í hana, svo á mittið á henni, meðan hún stóð á hestasteininum, albúin til þess að vinda sér upp í söðulinn.

,,Vertu sæl Gunna, og góða heilsu''! sagði hún, hló hátt, sló í Gulltopp og þeystist úr hlaði.

Þorvaldur gekk til Gunnu, rétti henni höndina og kvaddi hana.

„Vertu sæll, góði", sagði hún. Og þá gat hún ekki bundist þess að leggja hendur um háls honum. „Vertu sæll, elskan mín", hvíslaði hún í eyra honum.

Þorvaldur vatt sig af henni, dálítið óþolinmóðlega, og steig á bak. Þá var hottað á reiðingshestana og þeir reknir út tröðina.

Gunna gekk út fyrir bæinn og horfði á eftir fólkinu. Gudda teygði Gulltopp út eftir grundunum. Þorvaldur rak áburðarhestana með hinum piltunum, og var óvenjulega fyrirferðarmikill á hestbaki í öllum þessum fötum, sem hann hafði klætt sig í.

Gunna hallaði sér upp að bæjarkampinum og grét dálitla stund. Hún vissi ekki út af hverju hún var að gráta. En henni fanst auðn verða umhverfis sig.

Hún fór inn í bæ, og ætlaði að huga að fötum Þorvalds, þeim sem eftir áttu að vera. En hún fann, að kalla mátti, ekkert af þeim.

Hvað gat verið orðið af þeim? Hvernig stóð á þessu? Hún var ekki í neinum vafa um, hvar hún hafði gengið frá þeim. Hún leitaði á einum staðnum eftir annan. Þá var kallað á hana, til þess að sinna öðrum verkum. Þá hálf-gleymdi

hún fötunum. En einhver ónota-slæðingur var í hug hennar. Og hún var líka svo lasin.

---

Daginn eftir síðdegis sáu börnin á Hóli einhvern koma á dökkleitu utan grundirnar og fara geyst. Nokkuru síðar gengu þau úr skugga um, að þetta var Gudda á Gulltopp.

,,Hvaða ósköp er að sjá hann Gulltopp hjá þér'', sögðu börnin, þegar Gudda þeysti í hlaðið. Húsfreyja tímdi varla að láta hann taka sprett, lét hann venjulegast tölta, og þá var líkast því, sem hún lægi í vöggu, fullri af dúnsængum. Og nú var Gulltoppur lafmóður og hvergi þurt hár á honum; svo var hann löðrandi í svita.

Gudda sagði, að það skifti þau engu, og ösl-aði inn í baðstofu tafarlaust í reiðfötunum. Hús-bændur voru þar og Gunna.

,,Þorvaldur bað að heilsa'', sagði Gudda, þeytti svipunni á eitt rúmið og gaf sér ekki tóm til þess að kasta kveðju á þá, er inni voru.

,,Er hann ekki kominn með fólkinu? Eða er fólkið ekki komið?'' spurði húsfreyja.

Gudda hristi höfuðið.

,,Hvernig stendur á því, að þú kemur ein á undan? Hvers vegna varstu ekki samferða hin-um?''

,,Eg reið á undan lestinni. Eg hélt, að ykkur

langaði til að fá að vita fréttina sem fyrst. Ekki sízt Gunnu", sagði Gudda og hló við. „Þorvaldur bað að heilsa".

„Báðu þá ekki fleiri að heilsa en hann?" spurði húsbóndinn. Enginn skildi neitt í neinu. En allir fóru að ókyrrast.

„Ó — nei", sagði Gudda. „Hitt fólkið kemur nú væntanlega með lestinni í nótt. Þorvaldur bað einn að heilsa. Það getur dregist að hann komi. Hann brá sér til Ameríku með skipinu".

Gunna hélt sér í rúm-marann.

Gudda gekk fast að henni, og hélt áfram ræðu sinni.

„Hann bað sérstaklega að heilsa þér, Gunna. Hann sagði, að þú værir fjörugasti kvenmaðurinn, sem hann hefði nokkurn tíma kynst við. En hann var líka fullur. Og þá hættir karlmönnum svo við ýkjum".

Gunnu sortnaði fyrir augum og valt út af ofan á rúmið. Hún fór ekki á fætur það sem eftir var dagsins. Menn sáu öðru hvoru skjálfta í öxlum hennnar undir ábreiðunni. En hún breiddi stöðugt upp yfir höfuð og rótaði sér ekkert. Og enginn hafði tal af henni. Húsfreyju þótti ráðlegast að lofa henni að vera einni með sorg sína, og bannaði harðlega Guddu og börnunum að skifta sér nokkuð af henni.

Gudda lék á als oddi um kveldið. Jafn-káta hafði enginn séð hana áður. Hún sagði, að þetta væri skemtilegasta kaupstaðarferðin, sem hún hefði farið, og lang-skemtilegustu stundirnar, sem hún hefði lifað á æfi sinni. Veðrið hefði verið svo gott. Og Gulltoppur svo yndislegur. Og í kaupstaðnum hefði verið svo dæmalaust mikið gaman. Og þegar hún leit á rúmið, þar sem Gunna lá, var eins og sólarglampa brygði yfir andlitið á henni.

---

Mikið var talað um brottför Þorvalds. Og illa mæltist hún fyrir. Nákvæmari fregnir fóru líka að koma af háttalagi hans í öðrum sveitum, og allar spiltu þær orðstír hans. Gudda ein fann honum málsbætur. Allir ættu að geta séð það, að ekki væri nokkur von, að annar eins myndarmaður og hann Þorvaldur færi að bindast annari eins drós og henni Gunnu. Mörgum sæmdarmanni hefði orðið það að láta tælast af slíkum kvensum. En sannarlega væri til of mikils mælst, að þeir ættu að ganga að eiga þær. Þetta hefði ekki heldur verið skapleg áfergja í Gunnu. Auðvitað nokkuð undarlegt, að Þorvaldur skyldi ekki hafa fengið andstygð á henni strax. Og ekki hefði það orðið fyr en líkur hefðu verið til. En þegar sú andstygð hefði verið komin, hvað hefði hann þá getað gert skynsamlegra en að forðast hana sem vandlegast og flýja hana?

Slíkar ræður hélt Gudda, hvenær sem einhver fekst til að hlusta á þær. Og ekki skirðist hún neitt við að láta Gunnu heyra óminn af þeim álengdar. En fátt töluðu þær saman.

Gunna tók aldrei neitt í það, þegar Þorvaldi var álasað. Hún gat ekkert sagt. Hún gat ekki varið hann. En alt álas í hans garð var henni sár þjáning. Hún hugsaði ekkert um það, hvort hann væri góður maður eða vondur. Hún hugsaði eingöngu um þær unaðarstundir, sem hún hafði með honum verið. Og um þær vonir, sem nú höfðu að engu orðið.

Hvað var nú orðið af öllum yndislegu vitleysu-draumunum um útilegudalinn? Hvað var orðið af vonunum um einyrkja-jörðina? Hvað var orðið af öllum sólskinsstundunum, þegar hún ætlaði að sýna honum ást sína í orðum og verkum — einkum í verkum.

Var hún þá alveg vonlaus? Hún vissi það naumast sjálf. En hún var það ekki. Inst í hugskoti hennar var slæðingur af ímyndunum um það, að Þorvaldur kynni að skrifa eftir henni frá Vesturheimi. Það var á engu reist, öðru en ást og endurminningum. Og hún gerði sér enga verulega grein fyrir því. Samt dró þetta úr allra-sárasta sviðanum.

En annað kom nú og bætti bölið, að því

leyti, sem það varð bætt — hugsunin og vonin um afkvæmi. Hún fór að hugsa um barnið allan, liðlangan daginn. Og hana dreymdi um það á hverri nóttu. Skyldi það verða piltur eða stúlka? Hún vissi, að ekki var unt að fá neina vitneskju um það, fyr en á sínum tíma. Og henni var hvorttveggja jafn-kært. Samt var hún alt af um það að hugsa öðruhvoru. Hún bar grautarskálarnar inn handa fólkinu úr búrinu, og hún hafði það að marki, að ef ekki færi nokkur dropi niður hjá sér, þá yrði það piltur. Henni tókst það. Og hún varð glöð við. Allra-yndislegast var, að það yrði piltur, og héti Þorvaldur, og yrði líkur föður sínum. Aðra daga hafði hún það að marki, að ef hún gæti talið til 100, áður en nokkur yrti á hana, þá yrði það stúlka. Það tókst. Og þá gladdist hún líka. Stúlkubörn voru æfinlega mikið þekkari en drengir. Og gaman var að geta látið litlu stúlkuna heita Þorbjörgu eftir ömmu sinni.

Og þá komu fötin handa barninu. Var ekki yndislegt að sitja við það á nóttum og á sunnudögum að sauma þessi lifandi-undur-litlu föt handa barni, sem hún átti sjálf að eiga? Og var ekki gaman að handleika þessa fatableðla, strjúka þá, og brjóta þá saman, og rekja þá sundur, og leggja þá ofan í kistu, og taka þá upp aftur, og horfa á þá — og hugsa um blessaðan litla líkamann,

sem átti að fara í þessi krýli. Mitt í sorg hennar og söknuði gat henni vöknað um augu af móðurgleði.

En yfir þessari huggun og þessum friði hékk Gudda eins og illur andi með kolsvörtum vængjum. Um Gunnu fór hrollur í hvert skifti, sem hún heyrði flissið í henni. Og þegar Gunna sat yfir litlu fötunum, lagði Gudda kapp á að komast að henni óvörum og hreyta í hana skætingi. Gunnu fanst þá sem helt væri yfir sig úr ógeðslegustu skolpfötu. Andstygðin á Guddu titraði í hverri taug. Hún svaraði henni engu. En misgjörðir Guddu söfnuðust saman í hug hennar, eins og óveðurský í lofti. Einstöku sinnum fann hún ofsalegt hatur brjótast um í sál sinni. En að öllum jafnaði lagði söknuðurinn og endurminningarnar og vonirnar hlýja friðarvoð utan um sálina. Svo kyrð og þýða varð þar inni.

---

Um haustið varð Gunna léttari og ól sveinbarn. Þorvaldur var það skírt. Og það var efnilegt.

Og nú varð bjart yfir móður þess. Birta og friður. Friður, sem er öllum skilningi ofar. Friðurinn, sem er því samfara, að verið er að fullnægja djúpsettustu kærleiksþrá, insta sjálfsfórnareðli mannsandans. Fögnuðurinn út af því að sjá líf færast í mannssálina, sjá það betur en

allir aðrir, sjá það í sjónauka kærleikans. Ekkert var jafn-mjúkt eins og þessi örlitli líkami, sem varla mátti snerta, svo að hann dytti ekki sundur. Ekkert var jafn-blátt eins og augun í höfðinu á Valda litla. Og ekkert var jafn-gáfulegt eins og þau, þó að þau kynnu ekki að horfa á neitt. Og fyrsta hjalið af vörum hans læsti sig um líkama hennar og sál, eins og samsöngur himneskra hersveita.

Það leyndi sér ekki, að Gunna unni barninu heitar en lífinu í brjóstinu á sér. Alt ofurmagn ástríðnanna í sál hennar beindist nú í þessa átt. Hjónunum á Hóli þótti það vel farið. Þau mistu, vitaskuld, miklu meira af verkum hennar, en annars hefði verið óhjákvæmilegt, ef móðurást Gunnu hefði verið hversdagslegri. En þau settu það ekki fyrir sig. Þeim fanst ekki þau geta hrakið hana frá sér með barnið. Og þau buðu henni að vera kyrri næsta ár. Gunna þáði það með þökkum. En hún hugsaði samt til þess um leið, að hún vissi, að Gudda ætlaði að vera kyr.

Og Guddu fanst í meira lagi fátt um þessi læti með krakkann. Skárri var það nú óhemjuskapurinn. Áður hafði það komið fyrir, að stelpa ætti lausaleikskrakka, og höfðu ekki önnur eins ósköp gengið á. Hann var alt af sjálfum sér líkur, gangurinn í gamminum henni Gunnu. Auð-

vitað heyrði Gunna þetta raus. En hún skifti sér ekki af því.

Veturinn leið og sumarið þar á eftir leið. Gunna varð vör fleiri og fleiri dásemda með Valda með hverjum deginum. Og sál hennar varð samgrónari barninu með hverri stundunni. Til fyrsta afmælisdagsins hans hlakkaði hún meira en hún hafði nokkuru sinni til nokkurs dags hlakkað áður. Þá ætlaði hún að gefa öllu fólkinu súkkulaði og sætt kaffi með pönnukökum og kleinum. Og þá ætlaði hún að klæða Valda í nýja blússu og stígvél, sem hún hafði fengið úr kaupstaðnum um sumarið.

Afmælisdagurinn rann upp. Og fólkið fekk veitingarnar — Gudda eins og aðrir, þó að hún þægi þær með ólund og háðsyrðum. Og Valdi fekk skrautið. En áður en sá dagur var að kveldi kominn, var barnið orðið dauðveikt.

Hún sat með það alla nóttina.

Sótthitinn í því brendi sál hennar. Og hóstinn og stunurnar og veikt veinið ætlaði að nísta hana sundur. Og næsta dag sat hún yfir því, og næstu nótt og áfram, alt fram á fjórða dag, hvíldarlítið, friðlaus, gagntekin af skelfingu.

Og á fjórða degi lokaði hún augunum á Valda andvana.

Hún sat langa stund á eftir á rúminu fyrir

framan líkið, hélt annarri hendinni um kinnina á sér og reri þureyg, fram í gráðið, eins og hún hefði tannverk. Andlitið var eins og stirt alt saman.

Þá kom húsfreyja til hennar, lagði höndina á öxl hennar og mælti:

„Viltu nú ekki reyna að leggja þig út af, Gunna mín?"

Gunna hristi höfuðið.

„Núna er, hvort sem er, ekki til neins fyrir þig að vaka lengur, góða mín. Nú er ekkert framar að gera".

Þá mýktist andlitið. Og tár komu fram í augun og runnu ofan eftir kinnunum, fyrst eitt og eitt, hvert á eftir öðru. Og þá grét hún hástöfum og hríðskalf.

Nú fyrst var henni það að fullu ljóst, að ekki var til neins að vaka lengur, og ekkert framar að gera — ekkert að gera fyrir drenginn hennar — aldrei, aldrei framar!

Hún grét. Grét án afláts. Vildi ekki huggast láta. Dag eftir dag fekk hún snarpar grát-hviður. Starði með köflum út í bláinn. Sá ekkert annað en auðn og myrkur. Engin ánægja, engin gleði. Ekkert annað en þjáning og friðleysi og einstæðingsskapur. Og þá fór hún aftur að gráta.

Guð var vondur. Ekkert annað en vondur. Var hún ekki meinlaus smælingi? Var ekki Valdi litli enn meinlausari smælingi? Hvers vegna ekki láta þau í friði? Hvers vegna vera að níðast á þeim? Og hún grét.

Húsfreyja reyndi að telja um fyrir henni. Bað hana að reyna að vera stilta og rólega og gefa sig undir guðs vilja. Það varð ekki til annars en ills. Gunna gat ekki með nokkuru móti rætt það mál. Og hún gat ekki hlustað á slíkar fortölur; þær voru henni svo mikil kvöl. Henni lá við að firtast. Hvað gat húsfreyja vitað um, hvað henni þótti vænt um Valda? Hún hafði varla séð hann. Var það að sjá barnið að renna einstöku sinnum augunum til þess, um leið og hún gekk fram hjá því? Var ekki alt annað að sjá það, eins og hún hafði sjálf séð það. Og hún hugsaði um alt, sem hún hafði séð á því andliti. Og hún grét enn meira.

Ekki gat líkið staðið upp í baðstofunni. Það vildi Gunna. Hún vildi hafa það í rúminu hjá sér. En vitanlega náði það engri átt. Það var lagt til í úthýsi á hlaðinu. Að hugsa sér Valda liggja þarna á harðri fjöl, aleinan, og það í náttmyrkrinu, innan um hitt og annað skran? Og hún grét.

Kistuna smíðaði húsbóndinn í framhýsi í bæn-

um. Hvað það var voðulegt að heyra sagað og heflað og naglana rekna, og vita, að nú var verið að búa til hylki, sem átti að loka Valda litla niður í. Og grafa hann í þessu langt niður í jörðina og moka ofan á hann stórum haugum af mold! — Já, en þetta var gert við alla. — Var það nokkuð betra fyrir það? Og hún grét.

Þegar smíðinu á kistunni var lokið, var farið með hana í úthýsið, þar sem líkið stóð uppi. Gunna sá líkama Valda litla lagðan þar niður í. Og lokið var rígneglt aftur. Nú gat hún aldrei fengið að sjá hann aftur — aldrei nokkurn tíma. Hún ásakaði sjálfa sig fyrir að hafa ekki athugað andlitið nógu nákvæmlega, áður en lokið var neglt. Samt var enginn blettur svo lítill á því, lifandi né liðnu, að hún myndi ekki eftir honum. Og hún grét.

Húsfreyju leizt ekki á Gunnu. Hún var hrædd um, að geðsmunirnir mundu bilast með öllu. Og hún hugði ekki hættulaust, að hún fylgdi barninu til grafar, var hrædd um, að hún mundi veikjast í ferðinni, eða verða vandræðaefni með einhverjum öðrum hætti. Hún færði það í tal við Gunnu, hvort hún mundi ekki hafa betra af því að vera heima og reyna að hvíla sig og sofa.

Gunna varð stygg við. Nú gat hún ekki hlustað á neitt með stillingu. Hún sagði með

þjósti, að líklegast ætti samt ekki að fyrirmuna sér að fylgja Valda til grafar. Og hún grét. Og húsfreyja sá sárt eftir að hafa ymprað á þessu. Og beygði höfuð sitt í lotning fyrir ofurmagni sorgarinnar.

Og þegar kistan var komin inn í stofu, og fólkið hafði skipað sér utan um hana, og farið var að syngja sálm, þá fór kaldur hrollur um Gunnu. Og henni varð illa við líkmennina, sem stóðu þarna, eins og ekkert væri um að vera, og ætluðu að taka barnið hennar burt frá henni. Og hún grét svo mikið þá, að hún grét ekkert framar mestallan þann dag.

Hún reið á eftir litlu líkkistunni, og höfuðið var svo dofið, að öllu var til skila haldið, að hún vissi, hvað hún var að fara. Hún hrökk við, þegar farið var að hringja til inngöngu í kirkjuna. Og henni kom snöggvast til hugar, að nú væri verið að hringja fyrir Valda litla, og hvað honum hefði þótt gaman að heyra hringt ofurlítilli sauð-arbjöllu rétt fyrir framan andlitið á sér, og hvað augun í honum hefðu þá orðið stór, og hvað hendurnar á honum hefðu verið mjúkar og þrif-legar og hvítar, þegar hann hefði káfað eftir bjöllunni. En hún heyrði ekki nema óminn af orðunum, sem presturinn sagði. Og þegar hún sá kistuna síga ofan í gröfina og piltana kippa

reipunum upp og heyrði moldina skella á fjölunum, þá vissi hún, að eitthvað var óbærilegt. En henni var ekki með öllu ljóst, hvað það var.

En þegar hún kom heim aftur, þá var Valdi litli þar ekki. Og átti aldrei þar að vera. Og henni fanst auðnin hryllilegri en nokkuru sinni áður. Og þá kom gráturinn aftur.

---

Gunna lét ekki huggast, þó að frá liði. Hún var ekki mönnum sinnandi. Og menn fóru að verða leiðir á henni. Jafnvel húsfreyja, sem vildi vera henni góð, fór að verða óþolinmóð. Og stúlkurnar fóru að stinga saman nefjum um, hvort ekki væri rétt að gera tilraun til þess að telja um fyrir henni.

Gudda bauðst til þess að taka það að sér.

Það þótti stúlkunum varhugavert. Gunna mundi ekki vera sérstaklega fús á að hlýða á fortölur hennar. Og hún kynni að reiðast henni að marki.

Gudda hélt ekki, að mikil hætta væri á því. En væri þá svo hættulegt, þó að hún reiddist? Mundi það ekki einmitt geta orðið henni holt, vakið hana af þessu sinnuleysi?

Þetta þótti stúlkunum skynsamlega mælt. Og þær komu sér saman um, að bezt væri að Gudda reyndi þetta. Hún var hin öruggasta. Henni

fanst hún ætla að fara að reka nokkurs konar embættiserindi.

Hún hitti Gunnu frammi í stofu. Gunna var þar á hnjánum fyrir framan opna kistu og var eitthvað að rjála við föt Valda.

,,Ætlarðu nú ekki að fara að hressa þig upp, Gunna?" sagði Gudda, og ætlaðist til þess, að röddin væri góðlátleg.

Gunna svaraði engu og leit ekki við.

,,Heyrirðu ekki, hvað eg er að segja? — Eg var að spyrja, hvort þú ætlaðir ekki að fara að hressa þig upp".

,,Kemur þér það nokkuð við?" sagði Gunna.

,,Eg hélt eg mætti tala við þig almennilega. Eg hélt, það væri hægt að mæla þig máli".

,,Sjálfsagt langbezt fyrir þig að skifta þér ekkert af mér. Eg er engra ráða til þín að leita. Og þú hefir enga ábyrgð á mér", sagði Gunna, leit nú upp og framan í Guddu, og það alt annað en vingjarnlega.

Nú fór í meira lagi að þykna í Guddu.

,,Sérðu þá ekki, að það er til skammar að láta svona? Sérðu þá ekki, að þú ert bara til þyngsla hér á heimilinu?"

Gunna stóð upp, horfði á Guddu og skalf.

Gudda sá, að Gunna var orðin reið. Og hún espaðist enn meira. Hugsunin um Þorvald ýfðist líka upp fyrir henni og æsti hana.

,,Þú máttir vita það frá upphafi, að Þorvaldur ætlaði sér aldrei að eiga þig. Það vissu að minsta kosti, allir nema þú — þó að þú sért fjörug, eins og hann sagði í fylliríinu, þegar hann var að strjúka. Það er ekki nóg fyrir stúlkur að vera fjörugar við karlmenn. Þær verða líka að geta tekið afleiðingunum af því með dálitlu þreki''.

Gunna færði sig nær henni og mælti ekki orð frá munni. Hún stóð keikrétt fyrir framan hana, með krepta hnefana, og dró andann þungt.

Guddu hægðist, þegar hún hafði rutt þessu úr sér. Hana hafði svo lengi langað til þess að segja þetta. Og nú hafði henni tekist það. Fyrir bragðið varð hún mýkri í máli.

,,Eg vil þér ekki annað en gott, Gunna mín. Eg sé, að þú ert að fara með sjálfa þig á þessari vanstilling og þessum ofsa. Ef þú værir dálítið stiltari, ættirðu að geta séð það, að það var mikið lán fyrir þig, að krakkinn skyldi deyja. Hvaða ávinningur var fyrir þig að dragast með lausaleiksbarn? Nú jafnar alt sig eftir dálítinn tíma. Þú getur farið í annan landsfjórðung. Þar þarf enginn neitt um þetta að vita. Hver veit nema þú getir gifst þar, ef þú hagar þér dálítið skynsamlega. Krakkinn hefði aldrei orðið þér til annars en skammar og armæðu. Enda var hann nú sannast að segja, ekkert lánlegur. Það sáu allir nema þú''.

Nú kviknaði í öllu því eldfima móðgunarefni, sem safnast hafði fyrir í hug Gunnu.

Snarpt högg kom utan á vangann á Guddu.

,,Nú — ætlarðu að berja mig, andstygðin þín?" sagði hún.

Annað högg, engu ósnarpara, kom á hina kinnina á henni.

Gudda reyndi að berja aftur. En það var ekki til neins. Gunna náði í báða handleggina á henni, hélt henni frá sér og horfði á hana grimdarlega.

Gudda ruddi úr sér heilli stroku af blótsyrðum og brigzlum. Gunna starði á hana á meðan þegjandi, og andlitið afmyndaðist.

Og þegar Gudda þagnaði, af því að hún þurfti að draga andann, gerði Gunna sveiflu á hana, svo að hún skall á gólfið.

Gudda æpti hástöfum. Spurði, hvort Gunna væri orðin vitlaus.

Og það var hún. Hamslaus. Ekkert annað en blóðþyrst rándýr á þeirri stundu. Þráði ekkert annað í veröldinni en að geta svalað heift sinni, og látið Guddu kenna nógu mikið til.

Og hún dró hana um gólfið, og lét fæturna ganga á henni, sparkaði í sífellu, þangað til hún fekk dregið Guddu að priki, sem stóð í einu horninu. Og Gunna þreif prikið og lét það ganga

á Guddu, lamdi af alefli, hvíldarlaust. Og orgið og veinin gerðu ekki annað en æsa grimdina.

Að lokum rann fólkið á hljóðin og þyrptist inn í stofuna. Húsbóndi náði í Gunnu og tók af henni prikið. Hún veitti enga mótspyrnu. Kvenfólkið fór að stumra yfir Guddu. Hún veinaði án afláts. Og ekki var nokkurt viðlit, að hún gæti staðið upp. Hún var spurð, hvar hún kendi til. Og hún sagði: ,,Alstaðar". Og hún veinaði enn ákafar.

Hún var borin inn í baðstofu með háhljóðum. Og þegar var lagt af stað að leita læknis. Læknirinn kom og skoðaði hana og sagði hana handleggsbrotna og marða til muna hér og þar.

Fólkið var hrætt við Gunnu. Hélt hún væri orðin brjáluð. Bráðlega komust menn samt að raun um það, að hún var áreiðanlega með öllu viti. Og hún fór að vinna daginn eftir, er þessi atburður hafði fyrir komið. Nú var hún stilt; datt ekki af henni né draup. Og afar-fáorð var hún.

Húsfreyja gaf sig á tal við hana.

,,Eg geri ráð fyrir, að þetta muni hafa alvarlegar afleiðingar fyrir þig, Gunna mín", mælti hún.

,,Sennilega", sagði Gunna.

,,Kvíðirðu ekki ósköp fyrir því?"

,,Nei".

,,Finst þér þá ekki voðalegt að — að — "

Hún kom sér ekki að því að segja það.

,,Að komast undir mannahendur", sagði Gunna stillilega. ,,Nei, það gerir ekkert til nú".

,,Sérðu ekki ákaflega eftir þessum ósköpum?"

,,Eg veit ekki", svaraði Gunna.

,,Finst þér þá, að þú mundir geta gert þetta aftur?"

Gunna hugsaði sig um ofurlitla stund.

,,Líklegast — ef eg gæti ekki við það ráðið", sagði hún þá.

Húsfreyju vöknaði um augu af meðaumkun. En Gunna virtist alveg vera hætt að gráta.

Og Gudda lá með brotin bein og marið hold, líkamann fullan af sótthita og sviða og hugann fullan af heift og hefndargirni.

Hún lét kalla húsfreyju til sín og sagði við hana:

,,Á ekki að hegna henni?"

,,Eg veit ekki", svaraði húsfreyja. ,,Finst þér, að þú mundir verða nokkuð sælli fyrir það, Gudda mín?"

,,Það gerir nú auðvitað minst til um mig — fátæka og umkomulausa vinnukonu. Það þætti víst ekki ástæða til þess að vera að rekast mikið í því, þó að tekið væri af mér höfuðið eða eg væri skorin lifandi í smástykki hérna á heimilinu".

Húsfreyja bað hana að vera rólega og vildi ekki ræða málið frekar.

Skömmu síðar lét Gudda kalla húsbóndann til sín.

„Á ekkert að hegna henni?“ sagði hún.

„Eg á ekkert vald á því“, mælti hann. „En eg tala við sýslumanninn“.

Guddu hægðist.

---

Sýslumaður bjó á næsta bæ við Hól, roskinn maður, og þó vel ern. Góðmenskan skein út úr alskeggjuðu andlitinu, svo að afbrigðum þótti sæta. Hann var einn af hinum mörgu gæfu og góðu valdsmönnum, sem þetta land hefir eignast. Ráðhollur maður öllum, er til hans leituðu, og svo friðsamur, að hann bældi niður alla úlfúð, hvar sem hann fekk því við komið. Oft þótti minna verða úr sakamálum í hans höndum en almenningur bjóst við, og stundum minna en yfirmönnum hans þótti vel fara á. Vinátta var með þeim sýslumanni og hjónunum á Hóli. Enda var sýslumaður ástsæll af öllum þorra manna.

Þórður bóndi fór að finna hann, og sagði honum lauslega frá því, er fyrir hefði komið. Sýslumaður hlustaði á söguna með alvörusvip, og sagði, að bezt mundi vera, að hann yrði honum samferða.

Hann fann fyrst húsfreyju að máli og spurði hana um Gunnu. Húsfreyja lýsti henni sem vandlegast. Hún væri bezta hjú, dygg og ráðvönd. Stórlynd og vanstilt hefði hún lengstum verið, en óáleitin. Og hún skýrði frá breytingunum, sem á henni hefðu orðið tvö síðustu árin, viðkynnin við Þorvald, fæðing barnsins og andlát þess, að svo miklu leyti, sem hún hafði orðið þeirra breytinga vör.

Sýslumaður spurði, hvernig stæði þá á þessari misþyrming á Guddu.

Húsfreyja sagði frá þeim fáleikum, er verið hefðu með þeim stúlkunum, frá því er þær urðu fyrst samvistum, og hvernig Gudda hefði kvalið Gunnu, bæði í gleði hennar og sorg. „Eg veit ekki", mælti hún, „hvað gerst hefir með þeim inni í stofunni, áður en Gunna slepti sér. Og það getur víst enginn borið um, annar en þær sjálfar. Hinar stúlkurnar hafa fráleitt komið því við að standa á hleri, sem þær hefðu sjálfsagt viljað. Annars hefði Guddu verið veitt lið, fyr en það var gert. En að því geng eg vísu, að Gudda hafi sært hana og gert hana örvita með napuryrðum".

„Og má eg nú segja yður, hvernig eg lít á þetta mál, sýslumaður?" mælti húsfreyja enn fremur.

Sýslumaður kinkaði kolli brosandi og sagði, að sér þætti vænt um það.

,,Eg veit, að hegningarlögin leggja þunga refsingu við því, sem Gunnu hefir orðið á. Eg hefi verið að kynna mér þau, og mér skilst svo, sem ekki geti komið til nokkurra mála, að refsingin verði minni en þriggja mánaða fangelsi; en mjög hæpið, að hún verði svo væg. Eg veit, að þér vitið þetta alt mikið betur en eg, og er ekki að segja það í neinu öðru skyni en því, að þér sjáið, að dálítið hefi eg um þetta hugsað, og að eg er ekki að vaða bara út í bláinn. En mér getur ekki skilist, að það væri neitt annað en ranglæti og heimska að fara að refsa henni. Eg held ekki, að hún hafi neina ábyrgð á því, sem hún hefir gert. Hún hefir verið varnarlaus gegn sorginni, varnarlaus gegn áreitninni, varnarlaus gegn sjálfri sér. Það er hægur vandi að segja, að hún hafi átt að hafa þær varnir. Hver á að dæma þá, sem hafa lagst undir höfuð að búa hana þeim vörnum? Ætli ábyrgðin gæti ekki farið að lenda nokkuð víða, ef út í það væri farið? Og hverjum yrði það gleði, ef Gunnu yrði refsað? Guddu. Engum öðrum. Getur það verið rétt gert af valdstjórninni að vernda okkur með þeim verkum, sem öllum kunnugum eru til ama, nema Guddu — einu manneskjunni, sem ætti að fara í

tukthúsið fyrir áreitni sina og ilsku og hatur — ef við ættum rétt á að dæma nokkurn mann, sem við eigum ekki — ef þessir refsidómar mannanna væru að öllum jafnaði nokkuð annað en rangsleitni og vitleysa, sem þeir eru ekki. Eg veit, þið segið, að refsinga þurfi að minsta kosti öðrum til viðvörunar. Haldið þér, að nokkur maður, sem er ǫrvita orðinn af sorg og áreitni, muni stilla sig fremur fyrir það, að henni Gunnu sé refsað? Og er ekki alt fult af misgjörðum, sem aldrei er refsað fyrir, lygi, til dæmis að taka, og rógi um náungann, hinni og annarri andstygð, sem er sprottin af einberri ilsku? Og sé augnamiðið það að betra Gunnu — haldið þér þá, að hún mundi batna mikið í fangelsinu? Eg þekki hana, og eg veit, að hún er góð stúlka. Hún kunni ekki að stilla skap sitt í þetta skiftið, þegar alt var týnt, sem hafði gefið sál hennar jafnvægi. Getur vel verið, að hún kunni það aldrei eftirleiðis. En hún er sannorð og vönduð. Og hún kann að elska. Er ekki mest um það vert? Er ekki bæði grátlegt og hlægilegt að refsa þeim, sem eru með hugann fullan af ást, til þess að vernda þá, sem þykir ekki vænt um nokkurn mann?“

Sýslumaður hlustaði þolinmóðlega á húsfreyju, meðan hún lét dæluna ganga. Hann sá, að hún var í mikilli geðshræringu, þó að hún talaði stilli-

lega. Og hann vildi ekki særa skap hennar með neinum kappræðum.

„Eg væri ekki mikill lögfræðingur“, sagði hann brosandi, þegar hún þagnaði, „ef eg gæti ekki svarað því neinu, sem þér hafið sagt. Hitt er annað mál, hvort þér hafið ekki meira vit á máli Guðrúnar en nokkur lögfræðingur. En nú er bezt, að þér lofið mér að tala við stúlkuna sjálfa“.

Húsfreyja fór og sótti Gunnu. Hún varð ein eftir hjá sýslumanni. Hann bauð henni að setja sig niður og virti hana fyrir sér, án þess að hún yrði þess mikið vör.

Hann hafði oft séð Gunnu áður. En aldrei síðan er hún misti barnið. Hann sá að að hún hafði breyzt mikið. Æskan var horfin af andlitinu. Ekkert eftir þar annað en þjáning.

Hann spurði, hvernig þetta hefði atvikast. Hún svaraði engu.

„Hvað sagði Guðríður við yður?“ spurði sýslumaður.

„Eg man það ekki“, svaraði Gunna. „Hún sagði víst margt. Síðast mintist hún á barnið mitt“.

„Hvað sagði hún um barnið yðar?“

„Eg vil ekki vera að hafa það eftir“, sagði Gunna.

„Yður er bezt að segja mér það“, sagði

sýslumaður. „Það getur haft áhrif á það, hvernig í þetta mál verður tekið".

„Eg ætla að sætta mig við það, hvernig sem með það verður farið. Eg á það sjálfsagt skilið. En eg ætla ekki að hafa neitt eftir af því, sem hún sagði um mig og barnið. Eg man það ekki heldur svo nákvæmlega, að eg megi með það fara".

Hún var sýnilega ráðin í því að kaupa sér ekki neina miskunn með því að láta neitt það fara fram af vörum sér, sem fylti hana andstygð og hryllingi. Sýslumaður sá, að ekki var meira á henni að græða.

Nú lagði hann af stað inn að rúminu til Guddu.

Hann settist við rúmið og kastaði á hana kveðju.

„Nú getið þér séð, sýslumaður, hvernig farið hefir verið með mig", sagði Gudda.

„Já, eg veit það. Það tókst slysalega".

„Á ekki að hegna henni eitthvað fyrir þetta? Eða er það ósaknæmt að beinbrjóta mig og stórskemma hátt og lágt, af því að eg er ekki annað en bláfátæk vinnukona?"

„Það kemur nú til greina seinna", sagði sýslumaður. „Hvernig atvikaðist þetta?"

„Hvernig ætli það hafi atvikast, nema svona, að hún barði mig þetta litla!"

„Hvað fór ykkur á milli á undan? Hvað sögðuð þér við hana?"

,,Eg sagði ekkert við hana".

,,Ekki hafið þér verið alveg steinþegjandi, áður en hún gekk að yður og fór að lemja yður".

,,Það hefði nú ekki verið mikið. Hún hefði þá kanske getað reiðst af því, að eg talaði ekkert við hana. En eg ætlaði einmitt að fara að hugga stelpuskrattann. Og samt fór hún svona með mig".

,,Hvað sögðuð þér henni til huggunar? Þér hafið líklegast eitthvað minst á barnið hennar?"

,,Já. Eg sýndi henni fram á það með mestu hægð og lipurð, hvað hún hefði mátt verða því fegin, að barnið skyldi deyja".

,,Og hvers vegna fanst yður, að hún ætti að verða því fegin?"

,,Þér sjáið það nú víst sjálfur, sýslumaður, hvaða gleðiefni það muni vera fyrir heilvita manneskju að dragast með lausaleikskrakka, þegar faðirinn er kominn til Ameríku, og krakkinn er í tilbót heldur ljótur og leiðinlegur".

,,Þetta hafið þér sagt henni til huggunar?" sagði sýslumaður.

,,Já. Eg sagði henni það skynsamlegt, sem mér kom til hugar. — En hvaða refsingu fær hún? Hún á þó ekki að sleppa?"

Og andlitið á henni varð fult af áfergju.

Sýslumaður kvaddi Guddu. Og hjónunum sagði hann, að hann væri fyrir sitt leyti fús á að sleppa öllu málavastri. En þau yrðu að taka að sér að friða Guddu. Það varð hlutverk húsfreyju.

Og bæði hún og aðrir vissu, að ekki mundi auðhlaupið að því.

Hún gekk að því með sömu röggsemi, sem henni var ávalt lagin. En auðvitað hreyfði hún ekki málaleituninni fyr en Guddu var farið að líða sæmilega vel í rúminu.

Þá hóf hún máls á því einu sinni við hana, þegar henni virtist vel liggja á henni, að hún ætti að reyna að fyrirgefa Gunnu.

Gudda svaraði engu. Húsfreyja taldi það góðs vita, að hún skyldi ekki þegar komast í æsingu, gekk á lagið og hélt yfir henni dálitla fyrirgefningar-prédikun.

Hún minti hana á fyrirgefningar-bænina í faðir vor, á dæmisöguna um hinn skulduga þjón, á þau skýlaus ummæli Krists, að faðirinn fyrirgæfi ekki þeim, sem synjuðu öðrum fyrirgefningar, og á fyrirgefningar-orðin á krossinum.

Henni fórust svo hjartnæmilega orð, að Gudda viknaði. Henni fanst hún vera komin í kirkju. Húsfreyju þótti vænlega horfa.

„Heldurðu þú gætir nú ekki þetta, Gudda mín?“ — sagði hún einstaklega þýðlega — „fyrirgefið Gunnu þessi ósköp, sem henni hafa orðið á?“

„Jú“, sagði Gudda með vot augu. „Eg held það. Þegar Gunna er búin að vera nokkur ár í tukthúsinu“.

Þá sá húsfreyja, að horfurnar voru ekki jafngóðar eins og hún hafði snöggvast haldið.

„En þú átt alls ekki víst, að Gunna fari í tukthúsið, eða að henni verði neitt refsað", mælti hún þá.

„Já, átti eg ekki á von?", sagði Gudda og var nú orðin hin æfasta, „að það yrði ekki gert mikið úr því, þó að umkomulaus einstæðingur eins og eg væri beinbrotin og barin að öðru leyti til óbóta!"

Húsfreyja sýndi henni fram á, að þessi ályktun hennar væri fjærri öllum sanni Gunna væri ekki hærra sett í mannfélaginu en hún sjálf, og vekti fyrir nokkurum að níðast á smælingjum, þá væru eins miklar líkur til þess, að Gunna yrði fyrir því, eins og hún. Öðru máli hefði verið að gegna, ef Gunna hefði verið einhver heldri maður. Þá hefði mátt segja, að henni væri hlíft vegna þess.

„Hvers vegna á þá ekki að taka ofan í lurginn á stelpudjöflinum?" spurði Gudda.

„Sýslumaður lítur svo á, sem málsbætur séu miklar. Og hann heldur, að Gunna hafi naumast vitað, hvað hún gerði, verið viti sínu fjær af sorg".

„Ef allir, sem missa lausaleikskrakka, ættu að fara að beinbrjóta menn, þá fengju að minsta kosti læknarnir eitthvað að gera", sagði Gudda.

Húsfreyju þótti ekki ráðlegt að halda málinu lengra það skiftið. En hún var iðin við að ala á

því. Stundum lagði hún kapp á að sýna Guddu fram á, að ískyggilegt væri fyrir hana sjálfa að koma fyrir rétt. Hún hefði litla hugmynd um það, hvað neyðarlegar spurningar sýslumenn gætu lagt fyrir fólk, þegar þeir væru að rannsaka mál. Hún fylti huga Guddu óljósum, hálf-dularfullum ótta við öll réttarhöld og svardaga. Þetta færi fyrir hvern dómstólinn eftir annan. Framburður hennar yrði teygður og þvældur á ýmsa vegu, og lagður henni út til skammar. Hvert ógætnisorð, sem hún hefði sagt við Gunnu og um hana, yrði bókað. Og þetta kæmist sjálfsagt á prent.

,,Hugsaðu þér, ef það kæmist í blöðin, bærist út um alt land og yrði lesið á kvöldvökunum fólkinu til skemtunar hérna í dalnum. Hugsaðu þér, að þeir, sem skipaðir yrðu til þess að verja Gunnu, færu að reyna að bæta úr skák fyrir henni með því að heimta rannsókn á öllu því, sem þér kynni að hafa orðið á um æfina. Hver veit, hvar það kynni að lenda? Bezt er fáfróðu og umkomulausu alþýðufólki að forðast alla dómstóla og öll málaferli eins og heitan eldinn. Málaferli geta oft snúist við svo, áður en nokkurn varir, að þau eru orðin þeim til skammar og skapraunar, sem saklausir eru. Og ekki er heldur nokkur maður svo heilagur í þessum syndum spilta heimi, að ekki megi finna á honum nokkurn blett, ef lögkænir

og óprútnir undirhyggjumenn fara að leita sem vandlegast".

Þessar fortölur höfðu miklu meiri áhrif á Guddu en allar fyrirgefningar-prédikanir. Hún botnaði ekki mikið í þessum málaferla-hættum. Enda gerði húsfreyja aldrei ljósa grein fyrir þeim. En það óttast margir mest, er þeir skilja minst

Stundum ræddi húsfreyja málið við Guddu frá enn annarri hlið. Hún mintist á skaðabætur. Sagði Guddu, að hún vildi styðja að því, að Gunna greiddi henni þær eftir efnum. Brátt varð hún þess vör, að það þótti Guddu fýsilegt. Gunna hafði farið vel með kaup sitt, átti fáeinar kindur, og var sæmilega búin að fötum. Húsfreyja gat sagt Guddu, að Gunna væri þess albúin að láta alt af hendi rakna við hana, sem hún gat við sig losað, hefði látið það uppi við hana tvímælalaust. Guddu hægðist mikið við það, og lét þess getið, að ekki mætti minna vera, en að Gunna léti eitthvað af hendi rakna fyrir óbótaverk sitt, ef henni væri hlíft við refsingu. Húsfreyja samsinti því, og herti á því að fá þessum málalyktum framgengt.

Og henni tókst það. Samningar tókust um það, að Gudda léti sakir niður falla gegn því, að hún fengi kindur Gunnu og spariföt. Jafnframt var það til skilið af Guddu hálfu, að húsfreyja

ábyrgðist, að Gunna færi burt af heimilinu, þegar er Gudda kæmist á fætur aftur.

Nú voru þær stallsystur sáttar að kalla. En húsfreyja hugsaði sér hærra. Hún vildi koma á algerðum sáttum. Það eitt þótti henni nú vanta á algerðan sigur sinn í þessu máli. Hún fekk loforð um veturvist Gunnu á heimili þar í sveitinni, tók það reyndar nærri sér að láta hana fara frá sér, eins og ástatt var um hana, en þorði ekki annað en láta það eftir Guddu. Nema ef algerðar sættir tækust. Þá yrði unt að halda Gunnu.

Hún fór af nýju að færa í tal algerða fyrirgefning við Guddu. Nú tók Gudda því ekki jafnþunglega og áður. Og þar kom, að hún sagði húsfreyju, að bezt væri að Gunna talaði við sig eina.

Gunna tók því dræmt að biðja Guddu fyrirgefningar.

„Það er ekki til neins“, sagði hún. „Hún hugsar aldrei neitt annað en ilt. Eg veit hvernig hún var við Valda. Og saklaust var barnið“.

Húsfreyja hélt því fram, að þetta segði hún, af því að hún bæri haturshug í brjósti. Og það mætti hún með engu móti. Æfinlega yrði nokkuð að treysta á það, sem gott væri með öðrum mönnum — líka þeim, sem mikið mætti að finna. Annars gerðu menn lífið svo beiskt á bragðið.

Gunna fann, að húsfreyju var þetta kappsmál. Og eftir alla þá góðvild, sem fram hafði komið í þessu máli, vildi hún einkis synja henni — ekki heldur þess að fara með fyrirgefningarbón til Guddu. En þau spor voru henni nokkuð örðug.

,,Komdu nú sæl, Gunna", sagði Gudda, þegar stallsystir hennar kom að rúminu. Og röddin var fremur kuldaleg.

,,Eg er komin til þess að biðja þig fyrirgefningar", sagði Gunna.

,,Tyltu þér hérna á rúmstokkinn hjá mér".

Gunna gerði það.

,,Lúttu niður að mér. Eg ætla að leggja utan um hálsinn á þér þann handlegginn, sem þú mölvaðir ekki".

Gunna gerði það, eins og í draumi.

Gudda tók fast utan um hálsinn á henni með heilbrigða handleggnum og ríghélt höfðinu niður að andlitinu á sér.

,,E g fyrirgef þér", hvíslaði hún í eyra henni. ,,En það þykir mér vænt um, að eg veit að g u ð fyrirgefur þér ekki. Hvers vegna heldurðu, að Þorvaldur hafi strokið frá þér? Þú veizt það ekki. Eg veit það. Af því að þú ert ekkert annað en ilskan. Hvers vegna heldurðu að Valdi hafi dáið?

Eg veit það. Af því að öðrum eins manneskjum trúir guð ekki fyrir börnum".

Gudda slepti tökunum og hratt Gunnu frá sér.

Gunna hröklaðist frá rúminu niðurlút. Hún ráfaði fram í búr til húsfreyju og settist þar á kistu. En hún vissi naumast, hvert hún var komin. Þar sat hún nokkura stund steinþegjandi og horfði fram undan sér.

Húsfreyja spurði, hvað þeim Guddu hefði farið á milli.

Gunna svaraði engu.

Húsfreyja virti hana fyrir sér og sá, að hún var afar-þungbúin. Hún strauk hendinni um kinnina á Gunnu, og spurði, hvort nú lægi ósköp illa á henni.

Gunna hrökk við, þegar við hana var komið. Því næst tók hún að gráta svo ofsalega, að húsfreyja varð dauðhrædd.

Í ekkanum heyrðust lengi vel engin önnur orðaskil en:

„Guð minn góður! Guð minn góður!"

Þangað til hún fekk stunið upp þessum orðum:

„Get eg ekki komist héðan í dag?"

Daginn eftir fór hún frá Hóli.

Og Gudda komst bráðlega á fætur. Og hún var allra manna glöðust þar á heimilinu eftir leguna.

---

„Sigþrúður á Hóli hefir verið fyrirtaks kona“. sagði Sigurlaug gamla við mig mörgum árum síðar, að Gunnu látinni. Eftir öllu því, sem Guðrún sáluga hefir sagt mér af henni, hefir hún bæði verið valkvendi og vitkona. En öllum getur yfirsést. Og mikið dæmalaust glappaskot gerði hún. þegar hún fekk Guðrúnu sálugu til þess að friðmælast við Guddu“.

„Gat hún þá ekki gleymt þessum illyrðum?“ spurði eg.

„Gleymt þeim? Maður guðs og lifandi. Eg held nú síður. Það leið víst aldrei svo nokkur dagur, öll þessi ár, að hún hugsaði ekki um það, sem Gudda sagði síðast við hana. En það gerði nú ekki svo mikið til, þó að hún gleymdi þeim ekki. Hitt var verra, að hún trúði þeim“.

„Hvernig þá það?“ spurði eg.

„Já, eg væri nú meiri maður og meiri spekingur, en eg hefi nokkurn tíma orðið, ef eg gæti leyst úr því“.

Gráhært og þunnhært höfuðið á Sigurlaugu gömlu riðaði til og frá og grátdrættir komu í magurt og hrukkótt andlitið út frá munnvikunum. Hún dró þumalfingurinn eftir borðplötunni, sem við sátum við og hélt áfram ræðu sinni:

„Eg er hvorugt, eins og þér vitið. Eg er ekkert annað en aumingi, og mér hefir aldrei ver-

ið kent neitt. Svo þér skiljið það sjálfsagt, að mér gangi ekki vel að botna í fólki, sem er alveg ólíkt mér. Eg hefi eiginlega aldrei skilið neitt í Guðrúnu sálugu, annað en það, að hún ætti bágt. Eg hefi æfinlega treyst guði. Hvað sem á dagana hefir drifið fyrir mér — og sumt hefir það nú ekki verið sem gleðilegast — þá hefir mér fundist eg vita það, að það væri hans vilji. Og mér hefir aldrei dottið annað í hug en að hans vilji væri góður. En swona var Guðrún sáluga ekki, aumingjinn. Eg sagði yður víst áðan, að hún hefði trúað illyrðunum úr henni Guddu — sagði eg það ekki? En ekki er það nú samt satt, nema að hálfu leyti. Eg vildi nærri því óska, að hún hefði trúað þeim. Þá hefði kannske verið einhver festa í hug hennar. Þá hefði hún kannske farið að hugsa um að snúa sér til guðs og fá hjá honum þessa fyrirgefning, sem Gudda talaði um, og betra sig. Þér megið samt ekki halda, að Guðrún sáluga hafi verið vond manneskja. Nei, það var síður en svo. Eg veit ekki nema hún hafi verið bezta manneskjan, sem eg hefi nokkurn tíma þekt. En eg segi þetta si-sona. Verst var það, fanst mér, að hún trúði þessu og trúði því ekki. Aðra stundina hélt hún, að hún væri svo vond, og þess vegna hefði guð tekið barnið frá henni, og þess vegna fyrirgæfi guð henni ekki. Hina stundina

hélt hún, að hún væri ekkert vond, og að hún hefði ekkert til unnið, og að guð væri vondur. Nei, þetta er nú samt ekki alveg rétt, held eg. Mér fanst hún halda þetta hvorutveggja í einu. Og það var allra-verst, fanst mér. Þess vegna var svo örðugt fyrir mig að tala um þetta við hana og hugga hana og koma fyrir hana vitinu. Því þetta var ekkert annað en vitleysa, nokkurs konar brjálsemi — finst yður ekki? Það var eins og þeir, sem kölluðu hana Vitlausu Gunnu, vissu þetta. Hún var ekki vitlaus að neinu öðru leyti en þessu. Og samt vissi þetta enginn lifandi maður annar en eg. Þetta varð alt að einni bendu hjá henni. Eða kannske eg ætti heldur að segja, að það hafi orðið að einni þoku — finst yður það? Þér hafið svo miklu meira vit á, hvernig á að orða þetta en eg. En köld var þokan, sem hún sat í — guð minn góður! — ef við eigum að kalla það þoku. Og það var eins og eg sæi aldrei almennilega í Guðrúnu sálugu gegnum hana. En það hefir nú víst verið vegna þess, hvað eg er óskörp. Enginn sá samt gegnum þá þoku. En eg var líka eina manneskjan, sem þekti Guðrúnu sálugu nokkuð síðustu árin. Enginn sá gegnum þokuna nema guð''.

,,Hugsaði Guðrún ekki mikið um barnið til dauðadags?'' spurði eg.

,,Hvort hún hugsaði um það! Eg veit ekki,

hvað þér haldið! Hún hugsaði ekki um annað blessaðir verið þér!"

„Ekki voru þær um barnið, þessar hugsanir hennar, sem þér hafið verið að segja mér frá", sagði eg.

„Jú, góði minn, þær voru allar um barnið. Allar um það, hvernig stæði á því, að það hafði verið tekið frá henni. Hún talaði um það á hverjum degi, hvað það hefði verið yndislegt, og hvað hún hefði ætlað því. Hún hafði ætlað að setja það til menta, koma því á latínuskóla og háskóla og gera úr því sýslumann. „Eg hefði getað það", sagði hún. Og þá þuldi hún upp langar runur um það, sem hún mundi hafa á sig lagt, og reikninga yfir þær miklu tekjur, sem hún hefði getað haft upp úr stritinu, og þau litlu útgjöld, sem hún hefði þurft handa sjálfri sér. Fötin hans geymdi hún alt af í kommóðunni sinni. Og oft tók hún þau upp og sat yfir þeim tímunum saman. En einkum á afmælisdögum barnsins. Aldrei brást það, að hún segði mér þá, hvað hann væri nú orðinn gamall, ef hann hefði lifað, og hvað langt hann hefði þá átt að vera kominn á mentabrautinni. Þessu hélt hún áfram, þangað til í banalegunni".

„Varð þá nokkur breyting á henni?" spurði eg.

„Já, þá varð nú mikil breyting á henni", sagði Sigurlaug gamla.

Eg spurði, hvernig þeirri breytingu hefði verið háttað.

Sigurlaug gamla tók aftur til máls:

„Þegar Guðrún sáluga var lögst, gekk hún svo ríkt eftir því við lækninn, sem eg sótti til hennar — sannast að segja, að henni fornspurðri og sennilega að henni nauðugri — hún var æfinlega svo einþykk — að hann segði henni af eða á um það, hvort líklegt væri, að hún kæmist á fætur aftur, að hann komst ekki undan henni. Auðvitað fullyrti hann ekkert. En hann var með svo miklar vöflur og vífilengjur og svaraði öllu, sem hún spurði um, einhvern veginn svo óákveðið, að hún þóttist vita, hvað honum byggi í brjósti. Það, sem eftir var af deginum, lá hún steinþegjandi og horfði upp í loftið. Eg sofnaði svo um kvöldið, og fekk ekki orð úr henni.

Um morguninn þegar eg fór að klæða mig, lá hún alveg eins og kvöldinu áður, og horfði alveg eins upp í loftið. Eg spurði hana, hvort hún hefði legið svona alla nóttina og ekki sofnað neitt. Þá var eg ekki farin að vaka neitt hjá henni á nóttunum. Þá var hún ekki orðin svo veik“.

„Þá þagði hún dálítið og svo sagði hún:

„Nú veit eg það alt saman“.

„Hvað veiztu, Guðrún mín“, sagði eg.

„Alt um hann Valda“, sagði hún.

„Eg fór að athuga hana, svona með sjálfri

mér. Eg hélt, hún væri með óráði. En það var hún ekki. Ekki fremur en við núna.

,,Og hvað veiztu þá um hann Valda?" sagði eg.

,,Eg veit, hvers vegna hann var tekinn frá mér", sagði hún.

,,Nú varð eg hrædd. Mér fanst hún hafa þjáðst nógu mikið af þessum hugsunum, blessaður aumingingn, þó að hún hefði frið fyrir þeim á banasænginni. Eg hélt, að nú ætlaði alt að lenda í örvænting.

,,Eg bað hana að hætta nú að hugsa um þetta. Hún fengi að vita það alt á sínum tíma.

,,Hún sagðist ekki þurfa eftir neinu að bíða. Hún vissi það nú.

,,Og hvernig veiztu það þá?" sagði eg.

,,Eg var að hugsa um hann Valda í gærkvöldi, eftir að læknirinn fór", sagði hún. ,,Eg hugsaði fastar um hann, en nokkurn tíma áður. Og eg sá hann í nótt".

,,Varstu vakandi eða sofandi?" sagði eg.

,,Eg veit það ekki", sagði hún. ,,Eg geri ráð fyrir, að eg hafi sofið. En það gerir ekkert til. Eg veit, að eg sá hann. Hann kom hérna inn að rúminu mínu".

,,Var hann eins og þegar þú mistir hann?" sagði eg.

,,Nei-nei!" sagði hún. ,,Hann var álíka gamall eins og hann ætti að vera nú, ef hann

hefði lifað. Hann var mikið líkur honum föður sínum. En miklu fallegri samt".

,,Sagði hann nokkuð?" sagði eg.

,,Hann sagði bara þetta: 'Heldurðu að það verði ekki gaman að hittast, mamma?'" sagði hún.

,,Að hverju leyti ertu þá nær?" sagði eg.

,,Að öllu leyti", sagði hún. ,,Nú veit eg að það er lygi, sem Gudda sagði. Nú veit eg, að það er ekkert annað en vitleysa, sem eg hefi stundum haldið, að guð sé vondur. Nú veit eg, hvers vegna hann var tekinn frá mér".

,,Og hvers vegna heldurðu, að það hafi verið?" sagði eg.

,,Af því að ef hann hefði lifað, þá hefði verið svo voðalegt fyrir mig að deyja núna". Hugsaðu þér, hann hefði ekki verið nema nýkominn í latínuskólann. Hvað hefði aumingja drengurinn átt að gera, ef eg hefði dáið frá honum nú? Það hefði verið alveg óbærilegt. Já, guð er góður".

,,Skiljið þér þetta?" sagði Sigurlaug gamla. ,,Eg skil það ekki. En svona eru sumir menn, eins og Guðrún sáluga. Þeir trúa engu, sem presturinn segir. Þeir trúa ekki heilagri ritningu fremur en þjóðsögunum. Þeir trúa ekki einu sinni á guð. En ef einhver vitleysa kemur fyrir þá sjálfa, þó ekki sé nema einhverir draumórar, þá leggja þeir svo og svo mikið upp úr því. Hvernig stendur á þessu? Eg skil það ekki. Skiljið þér það?"

Sigurlaug gamla var svo áfjáð, að eg komst ekki undan að svara henni einhverju.

„Nei, eg skil það ekki“, sagði eg. „Eg skil ekki, hvernig á því stendur, að mennirnir skuli trúa nokkuru, sem er alsendis ósannað, ef þeim kemur á annað borð til hugar að fara að fara að rengja það. Og eg þekki ekki neinn annan, sem skilur það. Eg geri ráð fyrir, að það sé nokkuð flókið mál, hvers vegna menn trúa og hvers vegna menn trúa ekki,og hvers vegna menn hafna sumu og trúa öðru, sem er alveg jafnósannað“.

„Jæja, hvað sem um það er“, sagði Sigurlaug gamla, „þá er það áreiðanlegt, að banaleggan var bezti kaflinn af æfi Guðrúnar sálugu, eftir að Valdi litli dó. Hún var alt af glaðvær fram í andlátið. Aldrei kom að henni minsti óróleiki. Hún vissi, að hún átti að fara til Valda. Og hún vissi, að með Valda væri sér gott að vera. Hún virtist ekki hugsa um neitt annað en hann. Hún var óþreyjufull eins og barn og altaf að velta fyrir sér hinum og öðrum spurningum, sem enginn veit neitt um. Hvernig hann mundi nú taka á móti henni. Hvort hann mundi eiga heima í nokkuru húsi í himnaríki. Hvort hann mundi lesa bækur þar. Hvernig hann mundi vera klæddur. Hvort hann mundi ganga þar að nokkurri vinnu, líkt og menn gera hér á jörðinni. Hver mundi hafa fóstrað hann. Hún vonaði, að engin manneskja lík

Guddu hefði komið nærri honum, meðan hann var ósjálfbjarga í öðru lífi. Hvort nokkurar skepnur mundu vera í himnaríki, og hvort hugsanlegt væri, að hann hefði nokkurn tíma komið á hestbak. Svona var hún að hjala við mig, blessaður aumínginn, hvenær sem eg gat hjá henni verið. Alveg eins og barn. Og síðasta daginn, sem hún lifði, lét hún mig taka spjarirnar hans Valda upp úr kommóðunni, rekja þær sundur og breiða þær á rúmið hennar ofan á hana. Hún tók annarri hendinni um eina skyrtuna hans og hinni um kjólskufsu af honum. Og þeim tökum slepti hún aldrei . . . . Finst yður ekki undarlegt, ef hún hefði ekki hitt hann?"



